# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

14.tbl. 1. - 15.ágúst 197[illegible]   15o kr.


Þeir áskrifendur sem fengið hafa senda gíróseðla heim og enn ekki hafa greitt áskriftargjald sitt eru eindregið hvattir til að láta það ekki dragast.
Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9.

## 21. ágúst-hreyfingin: TÖKUM ÞÁTT Í STARFINU

# GERUM 21. ÁGÚST AÐ BARÁTTUDEGI




Þegar þetta blað kemur út eru tuttugu dagar eftir af undirbúningi 21. ágúst-starfsins. Það er stuttur tími einkum sé þess gætt, hve mikið starf er óunnið. Verkalýðsblaðið brýnir því alla andheimsvaldasinna og andstæðinga sovéskrar kúgunar á alþýðunni í Tékkóslóvakíu til að láta ekki á sér standa á lokasprettinum. Hverrar handar er þörf - hverrar lausrar stundar hvers einasta stuðningsmanns.

Starf 21. ágúst-hreyfingarinnar fer að mestu leyti fram í hópum. Meginverkefni hvers hóps eru fjórþætt :

Í fyrsta lagi fer þar fram umræða og pólitísk fræðsla. Fæst okkar vita mikið um málefni Tékkóslóvakíu og um sovéska heimsvaldastefnu, og því er þessi þáttur starfsins mjög mikilvægur nú. Framkvæmdanefnd hreyfingarinnar hefur látið útbúa lítinn fjölritaðan bækling til notkunar í þessu skyni, og kemur hann út þessa dagana og verður auk þess seldur á opinberum vettvangi.

Í öðru lagi er í hópunum rætt um afstöðuna til Samtaka herstöðvaandstæðinga og mögulegt samstarf við þau, en sem kunnugt er hefur framkvæmdanefnd 21. ágúst-hreyfingarinnar sent miðnefnd herstöðvaandstæðinga boð um víðtækt samstarf um aðgerðir 21. ágúst.

Í þriðja lagi er áróðursstarf mikilvægur hluti hópsstarfsins. Þar má nefna að skipulögð er dreifing dreifirita, merkjasala og sala upplýsingabæklings ásamt undirskriftasöfnun í miðborginni tvö síðdegi í viku hverri fram til 21. ágúst. Þá er ráð fyrir því gert að hver hópur skrifi tvær greinar í dagblöðin. Loks er ætlast til að allir félagar dreifi dreifiritum hreyfingarinnar og starfi að eflingu hreyfingarinnar eftir mætti á vinnustað sínum, meðal vina, kunningja og skyldfólks.

Í fjórða lagi er hópunum úthlutað sérstökum verkefnum fyrir hreyfinguna, s.s. samningu dreifirita, samningu ávarpa eða skemmtiefnis fyrir aðgerðirnar 21. ágúst, borðagerð, skreytingu fundarhúsnæðis o.s.frv.

Allt eru þetta störf sem krefjast mikillar vinnu, en því fleiri sem við verðum, því minna verður álagið á hvern einstakan. Reynum því að fá sem flesta með.

Liðsfundir 21. ágúst-hreyfingarinnar verða tveir, þann 3. ágúst og 16. ágúst nk. Þar verður starfið rætt, hóparnir bera saman bækur sínar og fréttir sagðar af samstarfsviðræðum við Samtök herstöðvaandstæðinga og af undirbúningi okkar eigin aðgerða. Áríðandi er að sem flestir mæti á liðsfundina.

Meðan svo fátt er vitað um undirtektir Samtaka herstöðvaandstæðinga við boði 21. ágúst - hreyfingarinnar, er ekki margt hægt að segja með vissu um aðgerðir dagsins. Þó má heita öruggt að 21. ágúst - hreyfingin mun standa fyrir innifundi að kvöldi 21. ágúst með margvíslegu og fjölbreyttu efni.

Undirbúningur þess fundar er að mestu í höndum skemmtinefndar og er þegar kominn vel af stað. Hvað aðrar aðgerðir varðar þennan dag álítum við í hreyfingunni nauðsynlegt að haldnar verði öflugar útiaðgerðir um daginn, t.d. útifundur og stutt kröfuganga, og verði ekki af neinu samstarfi við Samtök herstöðvaandstæðinga, munum við gera okkar til að dagurinn greypist inn í huga almennings sem baráttudagur til stuðnings alþýðunni í Tékkóslóvakíu gegn sovésku heimsvaldaofríki.

Félagar, andheimsvaldasinnar, lesendur, - brettum upp ermarnar - gerum 21. ágúst að baráttudegi!

# Krafist svara frá „KFÍ/ML"

Í þessu tbl. Verkalýðsblaðsins er birt opið bréf Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) til svokallaðs "Kommúnistaflokks Íslands". Þar er enn ítrekaður vilji EIK(m-l) til að sameina þessi samtök í ein með skilyrðum sem greind eru. "Opna bréfið" byggir ekki á neins konar afstöðubreytingu EIK(m-l) til sameiningar íslenskra marx-lenínista í ein samtök, hendur er það árétting á fyrri afstöðu samtakanna til málsins. Haustið 1976 settu EIK(m-l) fram opinbera stefnu í sameiningarmálinu með útgáfu "Grundvallar að sameiningu kommúnista í marx-lenínískan flokk - samþykktar EIK(m-l) ágúst 1976". Plaggið var fylgirit með 9. tbl. VB það ár og fæst í Októberbúðinni að Óðinsgötu 30. Þar birtu EIK(m-l) samantekt marx-lenínista á grundvallaratriðum marx-lenínismans og greiningu á baráttuaðstæðum hérlendis og erlendis, og buðu samtökum og einstaklingum að sameinast samtökunum á grundvelli innihalds plaggsins. "KFÍ/ML" hefur aldrei svarað sameiningargrundvelli EIK(m-l) einu orði, þrátt fyrir að gengið hafi verið eftir afstöðu flokksins til hans. Hins vegar tóku fjölmargir félagar flokksins sameiningargrundvöllinn til umræðu og lýstu stuðningi við hann og markmið EIK(m-l) með því að gera upp við henti- og endurskoðunarstefnu forystu "KFÍ/ML"; sögðu skilið við "flokkinn" og komu til liðs við EIK(m-l). Slíkur klofningur hefur orðið fjórum sinnum í "KFÍ/ML" á rúmlega einu ári.

Nú ætla EIK(m-l) að gera úrslitatilraun til að fá "KFÍ/ML" til að svara sameiningargrundvelli sínum, þ.e. með birtingu "opna bréfsins".

"Flokknum" er gefinn frestur til 1. október n.k. til að svara bréfinu og sameiningartilboðinu. Í lok bréfsins segir orðrétt:

"Hafi svörin ekki borist fyrir þann dag, skýr og altæk, álíta EIK(m-l) að "KFÍ/ML" hafni einingu og bréfinu alfarið. Velji "KFÍ/ML" þann kostinn þá munu EIK(m-l) líta á "flokkinn" sem meðvitað og andbyltingarsinnað klofningsafl og haga baráttu sinni í samræmi við það".

## STEFNUGRUNDVÖLLUR 21. ÁGÚST - HREYFINGARINNAR

1. Heri Sovétríkjanna burt frá Tékkóslóvakíu!
2. Styðjum frelsisbaráttu Tékka Slóvaka!
3. Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna!
4. Gegn allri heimsvaldastefnu - Ísland úr NATÓ - herinn burt!

## Myndun ríkisstjórnar

# Það verður ný borgaraleg stjórn

Þegar þetta er skrifað, er ekki annað sjáanlegt en að tilraunir leiðtoga Framsóknarflokks Alþýðuflokks og Alþýðubandalags um myndun ríkisstjórnar hafi farið út um þúfur að sinni. Þessir aðilar hafa nuddað saman nefum á lokuðum klíkufundum síðustu daga og vikur og reynt að bræða saman samstarfsgrundvöll og samkomulag um bitlingaskipti. Viðræðunum var gefið nafnið "tilraunir til myndunar vinstri stjórnar" í Þjóðviljanum og alþýðu manna gefnar vonir um bjartari tíma ef samkomulag tækist. Fjölmargt verkafólk og launafólk batt talsverðar vonir við umræðurnar, enda er almenningur búinn að fá sig fullsaddann af stöðugum árásum núverandi ríkisstjórnar á kaup og kjör. Fólk vill breytingu og vonaði að "vinstri stjórn" myndi reynast því betur. En svo hefði ekki orðið, ef fyrrnefndir flokkar hefðu komið sér saman um ríkisstjórn. Hver man t.d. ekki eftir afnámi síðustu "vinstri stjórnar" á verðbótum kaups í maí 1974? Hverjum dettur í hug að forysta Framsóknarflokks, sem er pólitískur málssvari Sambands-auðhringsins, muni á einhvern hátt og einhvern tíma verja hagsmuni launafólks? Hverjum dettur í hug að forysta Alþýðuflokksins, sem er opinskár og stoltur andstæðingur grundvallarréttinda launafólks um frjálsan samningsrétt um kaup og kjör, muni verja hagsmuni verkalýðsins (AF-forystan flaggar "kjarasáttmála" sem einu færu leiðinni til "lausnar efnahagsvandans" og vill þannig svipta launafólk samningsrétti. Vilmundur og fleiri toppkratar hafa haft silfurskeiðar í munni frá upphafi og hata verkalýðsbaráttu).

Jú, það er forysta Alþýðubandalagsins sem hiklaust hefur sett "vinstri" stimpil á þetta lið og hefur málað það vinsamlegt launafólki frá því ríkisstjórnarumræður hófust. Núna, eftir að umræðurnar hafa farið út um þúfur, eru fyrrnefndir flokkar trúlegar orðnir "fjandsamlegir verkafólki". Svona eru lögmál stjórnmála í auðvaldsþjóðfélagi. Þeim lögmálum lýtur Alþýðubandalagsforystan í einu og öllu.

Það skiptir engu máli hvaða flokkar skipa ríkisstjórn, því allir "stóru" flokkarnir eru í grundvallaratriðum eins. Alþýðubandalagsforystan viðurkennir opinskátt að auðvaldinu beri að velta kreppubyrðunum yfir á herðar verkafólksins - og hún býður hjálp sína við það verk. En AB-forystan gat ekki sæst á að aðgerðirnar skyldu heita gengisfelling, heldur einhver dularfull "niðurfærsluleið". Gamall grautur verður ekki nýr þó út í hann sé ausið rúsínum!



Myndin er tekin í nýrri prentsmiðju sem EIK(m-l) hafa eignast, en byrjað er að prenta Verkalýðsblaðið í henni. Þessi áfangi blaðsins og samtakanna er mikilvægur fyrir marx-lenínísku hreyfinguna í landinu og mun verða lyftistöng í starfinu framvegis. Í opnu blaðsins er að finna grein og fleiri myndir um vinnslu blaðsins. (VB-mynd)

## Sumarbúðir

Mæting: Hópferðamiðstöðin Suðurlandsbraut 6 (-ekki Umferðamiðstöðin), kl. 8.3o laugardag 5.ágúst. Allir sumarbúðaþátttakendur fari með rútu þaðan.

Við minnum þátttakendur einnig á að taka með sér menningarefni. Munið að taka með allan helsta útbúnað til útiveru (ekki mataráhöld), peninga til greiðslu mótsgjalds og annars.

Mætum vel!

Sumarbúðanefnd.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# KREPPUTÍMAR

Það kreppir að í auðvaldsheiminum. Í auðvaldslöndum um allan heim má sjá tákn kreppuástandsins: stöðugt vaxandi atvinnuleysi, niðurlagningu vinnustaða og árásir auðvaldsins í ótal myndum á kaup og kjör. En sameiginlegt er það í öllum löndum að borgaralegir stjórnmálamenn og auðherrar reyna ætíð að leiða athygli alþýðunnar frá þeirri staðreynd að stöðugar kreppur eru ekki "skyndilegar uppákomur" í þjóðfélaginu, heldur óhjákvæmilegur fylgifiskur auðvaldsskipulagsins allt til þess að sósíalisminn ryður hvoru tveggja úr vegi. Carter kennir Japönum um kreppuna í Bandaríkjunum, Jörgensen í Danmörku kennir Efnahagsbandalaginu og Bandaríkjastjórn um kreppuna í löndum þeirra. Geir og Jóhannes Nordal kenna "erfiðum viðskiptakjörum erlendis", en þó fyrst og fremst "of háum kaupsamningum" um kreppuna. Lúðvík og Gröndal kenna ríkisstjórninni um kreppuna og bjóða auðvaldinu upp á "nýjar leiðir" og hjálp til að lappa upp á gróðasöfnunina af vinnu launafólks. Allur talkór íslenska auðvaldsskipulagsins - frá forstjórum auðhringanna voldugu (Sambandið, Eimskip, Flugleiðir, Sölumiðstöðin) til fölsku "verkalýðs" foringjanna í ASÍ/BSRB/Alþýðubandalagi/Alþýðuflokki; frá Mogga til Þjóðvilja - allir eru sammála um að "þjóðarsamstaða" verði að nást um lausn kreppunnar, eða "efnahagserfiðleikans" eins og kreppan heitir á máli borgaralegu hagfræðinnar. "Þjóðarsamstaða" þýðir í þessu samhengi það að láta launafólk taka á sig mun meiri byrðar, ráðast enn frekar á kaup þess og kjör, til að draga úr áhrifum kreppunnar í þá átt að skerða gróða atvinnurekenda.

Kreppan í íslenska auðvaldskerfinu er enn ekki eins augljós fyrir mörgum og t.d. kreppan í Danmörku, þar sem hundruð þúsunda verkfærra manna hafa ekki atvinnu. En auðvelt er að benda á einkenni vaxandi kreppu á Íslandi: 1. Rauntekjur verka- og launafólks eru skertar með beinu lagaboði, 2. Offramleiðsla er gífurleg í vissum greinum landbúnaðar (smjör, grænmeti o.fl) 3. Gamalgróið flokkakerfi í ísl. stjórnmálum er að byrja að riðlast: Fylgi flyst á milli flokka og innbyrðis átök í flokkunum harðna að mun, 4. Sums staðar, sérstaklega á Suðurnesjum og á Stórreykjavíkursvæðinu, hefur dregið verulega úr yfirvinnu. Á einstaka stað er varla nokkur yfirvinna unnin lengur. Atvinnuútlit, sérstaklega í byggingar- og járnaiðnaði, er mjög dökkt í vetur. 5. Fölsku "verkalýðs" foringjarnir og atvinnurekendur hafa tekið höndum saman til að halda niðri vaxandi sjálfsprottinni baráttu verkalýðsins sem hefur komið upp og mun koma upp á vinnustöðum. Víða hefur baráttufúsu verkafólki verið sagt upp starfi til að forða því að það "smiti út frá sér".

6. Þrýstingur frystihúsaeigenda á ríkisvaldið að flytja þeim aukinn gróða með gengisfellingu, hótað er lokun fyrirtækja verði ekki farið að þeim kröfum.

"Verkalýðs"forystan og forystulið Alþýðubandalags og Alþýðuflokks eru sammála um að "leysa kreppuna" hjá frystihúsaauðherrunum með gengisfellingu og beinum fjárflutningi úr ríkissjóði - en láta verkafólk blæða.

Hér er aðeins fátt eitt nefnt, en nóg til að sýna að íslensk auðvaldskreppa er fyrir hendi og hún mun harðna. Launafólk getur best staðfest þá staðreynd með því að sjá hvernig innihald launaumslaga þess er stöðugt rýrara að verðgildi. En það ber ekki að taka auðvaldskreppuna sem sjálfsagðan hlut til að taka á sig. Við sláum því föstu að við getum aldrei komið í veg fyrir kreppuna, eins og Lúðvík, Geir og Gröndal glamra um. En verkafólk og launavinnufólk getur barist gegn því að bera byrðarnar sem auðvaldskreppan leggur því á herðar.

Verkalýðsstéttin á ekki að taka árásir á kaupsamninga sem sjálfsagðan hlut, jafnvel þótt að sýnt þyki að "verkalýðs" forystan horfi aðgerðarlítil upp á kaupránið. Aðgerðir á einstaka vinnustöðum hafa sýnt sig bera mikinn árangur. Setjum því fram staðbundnar kröfur, krefjumst samninga og undirbúum verkfall og aðrar aðgerðir. Sýnum í verki stuðning við verkafólk í baráttu (stuðningurinn við fólkið í Bæjarútgerð Hafnarfjarðar er fordæmi!) 2. Berjumst fyrir atvinnuöryggi, sérstaklega fyrir verkakonur í fiskvinnu. 3. Eflum samstöðu verkafólksins á vinnustöðum okkar, verjum félaga okkar sem standa fremst í baráttunni fyrir uppsögnum og hvers kyns árásum atvinnurekenda og "verkalýðs"forystunnar. 4. Afhjúpum falskar "lausnir" stjórnmálamanna og "verkalýðs" foringja, sem kenna sig við alþýðu, á auðvaldskreppunni og sýnum stöðugt fram á þjónkun þeirra við atvinnurekendur og auðvaldsskipulagið.

AUÐVALDIÐ Á AÐ BERA EIGIN KREPPU.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l) 26. júlí 1978

LESENDABRÉF

## Eftir kosningar:

# Lærdómar um Alþýðubandalagið

Þau eru ekki mörg Evrópulöndin þar sem flokkur "róttæka arms verkalýðshreyfingarinnar" er næst stærsti flokkurinn, eins og nú er á Íslandi. Þess er þá trúlega að vænta að stórir og róttækir hlutir muni gerast í íslenskri stéttabaráttu. Vertíð Abl., kosningar, er nýbúin og aflabrögð góð að heyra.

Á meðan fagleg stefna Abl. kemur skýrast fram í kringum kjarasamninga, sést pólitísk stefna flokksins í hnotskurn og skýrustu ljósi kringum kosningar.

Í kosningunum nú var margendurtekið af Abl.-forystunni, að efnahagsmálin væru alger forgagnsmál kosningabaráttunnar. Fyrirferðamest er þar kjörorðið "Íslensk atvinnustefna". Þar eru stórtíðindi á ferð. Helstu atriði "atvinnustefnunnar" eru: "aukning framleiðsluverðmæta", atvinnutækin í höndum "okkar Íslendinga" (hvaða Íslendinga), aukin efnahagsleg ríkisafskipti og hagstjórnun, aukinn félagslegur rekstur og forræði fólksins yfir framleiðslutækjunum! Abl.-forystan segist geta bjargað íslensku efnahagslífi út úr vaxandi verðbólgu, skriffinnsku-yfirbyggingu, óarðbærum fjárfestingum og öðrum einkennum dýpkandi kreppu. Í kjölfar viðreisnar efnahagslífsins er talað um bætt kjör fólksins.

Flokkur verkalýðsins á m.ö.o. að tala stjórnina til að bæta efnahagsstöðu íslenskrar borgarastéttar til að hún geti borgað verkalýðnum hærra kaup. Þetta er draumurinn: Ríkara auðvald, fleiri brauðmola af borðum þess, allir ánægðir. Ekki á aðeins að bjarga íslensku auðvaldskerfi, heldur líka tryggja friðsamlega sambúð stéttanna, helst að eilífu!

### HVAÐ FINNST AB-FÓLKI ?

Hvað finnst óbreyttu Abl.-fólki um þetta?

Þessi efnahagsúrræði Abl voru svo mikilvæg og snjöll, að fátt annað komst að í kosningaræðum og riti þingmannsefnanna.

Um t.d utanríkismálin ríkti þögnin. Þá ætti sósíalískur flokkur að tjá kjósendum sínum hvert hlutverk kosningastarfsins er í hinni sósíalísku baráttu, en orðið sósíalismi gleymdist víst alveg í hita leiksins. Að vísu hefur Guðrún Helgadóttir sennilega verið að meina sósíalismann í einum sjónvarpsþættinum, þótt hún segði það ekki beint. Hún sagði á þessa leið: ef við vinnum jafn stóran eða stærri sigur í alþingiskosningunum, er öllum hindrunum rutt úr vegi fyrir því að við getum byggt upp þannig þjóðfélag sem við viljum lifa í. Nú, er þá íslenska auðvaldið á síðasta snúning? Ekki beinlínis, því Abl. ætlar að byggja upp sósíalismann í ástkærri sambúð og "heilbrigðri samkeppni" við auðvaldið! Dæmi um það er kjörorðið "atvinnulýðræði", að verkafólk fái fulltrúa, í stjórn fyrirtækja. Kjörorðið er helst þekkt frá sænskum krötum og mjög vinsælt af atvinnurekendum þar í landi.

Alþýðubandalagskjósendur, hvað finnst ykkur um þetta?

### VERKALÝÐURINN STJÓRNAR EKKI AUÐVALDSÞJÓÐFÉLAGI.

Við öllu þessu segjum við: Í fyrsta lagi er það ekki sögulegt hlutverk verkalýðsins að stjórna auðvaldsþjóðfélaginu betur en borgarastéttin, heldur taka völdin og brjóta um leið auðvaldskerfið niður. Í öðru lagi getur hann ekki stjórnað auðvaldsþjóðfélaginu, af því hvernig borgaralegt ríkisvald er byggt upp og sniðið fyrir auðstéttina. Því síður getur hann leyst auðvaldskreppuna, en aðeins varist því að henni verði velt á herðar hans. Í þriðja lagi er ljóst að Abl. vill stýra auðvaldsþjóðfélaginu, ekki afnema það. Flokkurinn er þrælbundinn innan stjórnmálaramma auðstéttarinnar - þingræðisins. Í kosningabaráttunni birtist flokkur sem keppist við að sannfæra atvinnurekendur um að hann geti, á auðvaldsvísu, stjórnað betur en íhaldið

Samkvæmt marxismanum er samtakamáttur og stéttabarátta það eina sem breytt getur lífskjörum í auðvaldsþjóðfélagi, því ríkisvaldið stjórnar alltaf auðstéttinni. Lenín sagði: "Í baráttunni um völdin á verkalýðsstéttin ekkert annað vopn en samtök sín." Hins vegar segir Einar Olgeirsson í síðasta tbl. Réttar: "Það er þung ábyrgð sem hvílir á hverjum vinnandi og hugsandi Íslendingi þegar hann hefur tækifæri til að beita kjörseðlinum (undirstr. bréfritara) sem beittasta vopninu í stéttabaráttu alþýðunnar og frelsisbaráttu þjóðarinnar í vor og sumar". Þá Lenín og Einar greinir hastarlega á um vopnin sem duga. Ég held að Einar og hans líkar gleymi marxismanum viljandi. Við köllum þá endurbóta- og endurskoðunarsinna og berjumst gegn þeim án allrar vægðar.

Rauðmundur- Akureyri.

(Millifyrirsagnir eru settar af ritstjórn)

# ÞEIR GRÆÐA OG GRÆÐA

Nokkur orð um efnahagsástandið. Ég var að velta því fyrir mér hvort ekki sé miklu logið til um ástandið í efnahagsmálum landsins. Það er bókstaflega allt á hausnum, ef marka má útlistanir atvinnupólitíkusa og hagspekinga þeirra. Samt sem áður lifir hluti þjóðarinnar, atvinnurekendur og þessháttar þý, í sífellt meiri vellystingum og hjá sumum fyrirtækjum er aukinn gróði ár hvert, en það eru þessir stóru svo sem SÍS og Flugleiðir og svo toppurinn í frystihúsakeðju Sölumiðstöðvarinnar. SÍS og Sölumiðstöðin byggja risafyrirtæki í Bandaríkjunum fyrir gróðann af íslenska fiskinum, en svo eru frystihúsin hér heima rekin með tapi, ef marka má orð spekinganna. Það er svo sem ekkert að undra að þessir auðherrar sem stjórna SÍS og Sölumiðstöðinni raki inn gróða. Það er hagkvæmast fyrir þá að hafa allt hráefnaverð, sem lægst en söluverðið úr verksmiðjunum í Bandaríkjunum sem allra hæst, þá fæst mestur gróði fyrir þá. Sem sagt minni tilkostnaður og hátt lokaverð gerir mikinn gróða. Auk þess raka þessir auðherrar inn gróða á því að fella gengi ísl. krónunnar, af því að markaðsverðið er í dollurum, en launagreiðslur í ísl. krónum. Fyrir þá þýðir gengisfelling bein lækkun á launakostnaði, en það er jú um leið bein launalækkun til verkafólksins. Þetta gildir svo fyrir öll fyrirtæki sem fá mestan hluta greiðslna í erlendum gjaldeyri, svo sem dollurum, pundum eða mörkum, þau græða beint á gengisfellingu og gengissigi, en þeirra gróði er auðvitað tap fyrir alþýðuna hér á landi. Núna er sagt að það sé tap á öllu hér og að það þurfi að lækka launin. Það er bara svo erfitt að gera það beint, því verkafólk samþykkir það alls ekki af skiljanlegum ástæðum, svo þá er farin hin gamalþekkta feluleið, að lækka gengi krónunnar og borga launin með verðminni krónum, en það er jú líka kauplækkun. Mér virðist að forsprakkar allra flokka séu búnir að samþykkja gengisfellingu til að "leysa vandann", sé þetta rangt biðst ég forláts, en víst er að enginn bendir á leið sem er í því fólgin að láta auðvaldið sjálft, auðherrana í SÍS og Sölumiðstöðinni, Flugleiðum og öðrum fyrirtækjum landsins, taka á sig þetta margumrædda tap. Það er enginn sem bendir á nauðsyn þess að virkja þurfi verkalýðsfjöldann til að berjast gegn dýrtíðinni. Það eruð e.t.v. helst þið í Verkalýðsblaðinu og Einingarsamtökunum, sem leitist við að gera eitthvað raunhæft þó lítið sjáist ennþá til ykkar. Mér finnst að þið komið með rétta stefnu í Verkalýðsblaðinu, en þið mættuð gera meira af því að skrifa um efnahagsmálin og upplýsa þennan hrottalega feluleik, sem þeir eru að leika sér í atvinnupólitíkusarnir og auðherrarnir. Það vita það allir vinnandi menn að nóg er til af peningum, því ekki gengur framleiðslan illa, það rótfiskast og tækin til sjós og lands eru núorðið mjög fullkomin. Það er bara spurningin um það hvernig afrakstrinum skal skipt á milli. Núna er það þannig að verkafólkið sem vinnur fær minnst, og í raun alltaf minna og minna, en þeir sem sitja á peningakössunum fá alltaf meira og meira og lifa flottara og flottara og byggja fleiri arðránskvarnir og þær helst í útlöndum eins og nú virðist vera tískan.

Það er kominn tími til að láta flottræflana finna fyrir því hverjir það eru sem skapa auðinn, sem þeir nærast á.

Valdi

# „Járnkrossinn á íslensku"

Verkalýðsblaðið hefur fregnað að væntanleg sé á markaðinn íslensk útgáfa af "Járnkrossinum" eftir norska kommúnistann Jon Michelet. Sú bók fjallar um nasismann, bæði á stríðsárunum í Noregi og á síðari árum. Hún er byggð upp sem spennandi reyfari, og sem slík er hún mjög góð. M.a. fékk hún 1. verðlaun í norskum hluta norrænnar reyfarasamkeppni árið 1976.

Ferill bókarinnar er nokkuð frábrugðinn því sem almennt gerist. Hún kom út hjá borgaralegu norsku forlagi árið 1976, en í þeirri útgáfu höfðu tveir kaflar verið ritskoðaðir burt, kafli sem fjallaði um stórkapítalista sem varð nasisti, og eftirmáli höfundar, þar sem hann gerði grein fyrir tilgangi sínum með bókinni.

Íslenska útgáfan af "Járnkrossinum" inniheldur bæði kaflana úr aðalútgáfunni og það sem ritskoðað var.

Útgefandi bókarinnar er Prenthúsið sf. og er reiknað með að hún komi á markaðinn snemma í haust. Þýðendur eru Guðmundur Sæmundsson og Hafþór Guðjónsson.

Verkalýðsblaðið fagnar þessari útgáfu. Þessi bók er mjög góð og hún mun verða beitt vopn í baráttu gegn hvers kyns fasisma og fasískum tilhneigingum í þjóðfélagi okkar.

# Eritreu söfnun

90
80
70
61.235,-

100 ÞÚS.

ERITREA

OUR JUST STRUGGLE WILL WIN
VÅR RETTFERDIGE KAMP VIL VINNE

FYRIR ERITREU

Október

300 þúsund fyrir OKTÓBER!

300
250
200
150
100
64.326,-



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Þarf frekar vitnanna við?

"Nú, var það enn í gildi?" tautuðu ýmsir undrandi í síðustu viku af júlí, þegar forysta Verkamannasambandsins gaf út yfirlýsingu um að fresta bæri "útflutningsbanninu" eftir að þetta pappírsbann hafði verið "í gildi" í 3 mánuði. Allan þann tíma sem "útflutningsbannið" stóð, sátu Guðmundur J. og aðrir foringjar Verkamannasambandsins perlandi sveittir á kontórunum sínum og útbýttu undanþágum til útflytjenda frá "banninu", þannig að þegar upp er staðið þá hefur útflutningur aldrei verið meiri á sama tímabili - eru plögg Hagstofu Íslands til vitnis um það. Guðmundur J. hefur í fjölmiðlum látið drýgindalega með "útflutningsbannið" og talað um að það hafi "tvímælalaust haft mikil áhrif á að knýja á um að kauplækkunarlög ríkisstjórnarinnar hafi verið afnumin að hluta". Bendir hann m.a. á að allmargir atvinnurekendur borgi nú kaup samkvæmt gildandi kjarasamningum, en forðast auðvitað að hafa mörg orð um það hvort verkalýðshreyfingunni beri að sækja með valdi þann hluta kaupsins sem sömu atvinnurekendur stálu frá verkafólki frá því kaupránslögin tóku gildi í febrúar, þar til þeir fóru að borga samningsbundið kaup. Auðvitað dettur engum í hug að halda að "útflutningsbannið" eða aðrar sýndaraðgerðir ASÍ-forystunnar hafi þrýst á atvinnurekendur til að borga samkvæmt samningum. Ástæðan er einfaldlega sú, að kaupránslögin hafa þegar skilað atvinnurekendum geysulegu fjármagni úr vasa launafólks. Atvinnurekendur hafa orð ASÍ-forystunnar fyrir því að ekki verði neitt gert til að endurheimta það sem stolið hefur verið frá upphafi. ASÍ-forystan blæs því út í blöðum að "sigurinn" sé fólginn í því að verkafólk fái greitt samkvæmt samningum þegar atvinnurekendum þóknast svo, og atvinnurekendur taka þakklátir þátt í skrípaleiknum með því að þykjast "knúnir" til að borga. Er þetta ekki stórkostlegt?

Á Akureyri er að finna Jón Helgason, formann verkalýðsfélagsins Einingar. En Jónki situr á fleiri stólum. Hann er einnig í útgerðarráði Útgerðarfélags Akureyringa og finnur því mæta vel hvað "útflutningsbann" Jóns Helgasonar ASÍ-foringja er hagstætt fyrir Jón Helgason atvinnurekenda hjá ÚA. Í Vísi segir þessi fulltrúi ASÍ/VSÍ: nefnilega hreint út, að "í reynd hefði ekkert útflutningsbann verið síðustu vikur. Það væri ekki hægt að kalla það útflutningsbann þegar veittar væru undanþágur eftir beiðni hvers og eins". (Vísir, 25. júlí 1978). Við þurfum í raun engu við þetta að bæta. Atvinnurekandinn Jón hefur svarað fyrir stétt sína.

**H/F EIMSKIPAFÉLAG ÍSLANDS** — REYKJAVÍK - ÍSLAND — NAFNNÚMER 1784-9298

**LAUNASEÐILL** Nr. 17317

[redacted]

Vikulok: 08/07/78 — Vinnuflokkur: 00

| SUNDURLIÐUN LAUNA | | | | SUNDURLIÐUN Á FRÁDRÆTTI | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| DAGV.TÍM 40,00 | DAGV. LAUN 31.560 | BONUS | LAUN ALLS 37.687 | | LÍFEYRIR 1.367 | MATUR |
| EFTIRV.TÍM 2,25 | EFTIRV. LAUN 2.486 | ANNAÐ/ORLOFSL. | FRÁDRÁTTUR ALLS 1.777 | OPINB. GJ. I | SKYLDUSPARN. | |
| NÆTURV.TÍM | NÆTURV. LAUN | ORLOFSFÉ 3.139 | ÚTBORGAÐ KR. 35.910 | OPINB. GJ. II | FÉLAGSGJÖLD 410 | |

VERÐBÓTAVIÐAUKI 3.641

SAMTALS FRÁ ÁRAMÓTUM

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | LAUN [redacted] | ORLOFSFÉ [redacted] | SKYLDUSPARN. | LÍFEYRIR 1.367 | | |
| Grunnur orl.l. | | OPINB. GJ. I | OPINB. GJ. II | | | |

SEÐILL ÞESSI GILDIR SEM KVITTUN FYRIR TILGREINDUM FRÁDRÆTTI!

Svona líta skrautfjaðrir ASÍ-forystunnar út: kaup samkvæmt 3. taxta Dagsbrúnar hjá Eimskip. Hér eru "samningarnir í gildi", "verðbótaviðauki" reiknaður, og m.a.s. 2,25 eftirvinnutímar með í spilinu! Verkalýðsblaðið býður Guðmundi J. og Eðvarð Sigurðssyni birtingu á þeirra launaseðlum til samanburðar. Við munum birta þá á áberandi stað, því lofum við!

## Er hægt að einangra herinn

Í kosningabaráttunni fyrir Alþingiskosningarnar reyndi Alþýðubandalagið að fá kjósendur til fylgis við sig, með því að lofa að beita sér fyrir brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO. Bentu frambjóðendur AB oftlega á það að allir hinir þingflokkarnir væru "hernámsflokkar" aðeins AB hefði það á stefnuskrá sinni að reka herinn. En nú er kjördagur liðinn og komið að efndum loforðanna.

Í stjórnarmyndunarviðræðunum við Framsókn og Alþýðuflokk mun AB hafa sett fram "stefnu" í sambandi við hermálið, stefnu sem ætlað var að friða þá kjósendur sem lögðu trúnað á heilindi AB í því máli.

Í leiðara Þjóðviljans þann 21. júlí s.l. er þessi stefna sett fram: "Hersetin þjóð er hvorki pólitískt óháð né siðferðislega sterk. Hér þrífst margvísleg fjármálaspilling í skjóli hersins og beinlínis af hans völdum. Þess vegna þarf að einangra herinn og skera á öll efnahagsleg tengsl við herstöðina á meðan hún er hér, en stefna að því að landið verði herlaust eins fljótt og hersamningurinn leyfir". (undirstrikun okkar)

Samkvæmt samningum mega líða 18 mánuðir frá því að honum er sagt upp og þar til bandaríkjaher er skylt að vera á brott. Og á meðan hyggst AB einangra hann þannig að hann geri nú ekki neinn skaða. Slíkar yfirlýsingar eru tóm blekking. Hersinnar og þá sérstaklega þeir sem hafa verulegan efnahagslegan ábata af veru hersins hér munu örugglega ekki sitja með hendur í skauti svo langan tíma og láta AB "skera á öll efnahagsleg tengsl við herstöðina". Undirskriftasöfnun Varins lands 1974 sýndi okkur herstöðvaandstæðingum allrækilega fram á það.

AB vill ekki fremur en aðrir borgaralegir flokkar veikja ríkisvaldið, á neinn hátt. Hins vegar eru margir Alþýðubandalagsmenn einlægir herstöðvaandstæðingar og hluta kosningafylgis síns fær flokkurinn vegna yfirlýstrar afstöðu til hersins og aðildarinnar að NATO. Þess vegna telja forystumenn hans vænlegast að sigla þarna undir fölsku flaggi.

En afstaða þeirra kemur greinilega í ljós innan Samtaka herstöðvaandstæðinga (SHA). Þar hafa forystumenn AB barist leynt og ljóst gegn allri fjöldavirkni og gegn því að grundvöllur samtakanna verði barátta gegn allri heimsvaldaásælni bæði Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Á tímum þegar AB er í stjórn (eins og t.d. á tímum síðustu "vinstri stjórnar") er andstaða AB gegn skipulagðri baráttu mest. Þá reyna forystumenn AB að snúa herstöðvaandstæðingum inn á þá línu að nóg sé að berjast fyrir brottför hersins, óþarfi sé að blanda úrsögn úr NATO inn í málið.

Því er það nú brýnasta verkefni herstöðvaandstæðinga að efla fjöldastarf SHA. Færa verður grundvöll samtakanna í það horf að einhvers árangurs sé að vænta af baráttunni. Þ.e. inn í grundvöllinn þurfa að koma skýr ákvæði um að SHA berjist af alefli gegn sovésku heimsvaldastefnunni engu síður en þeirri bandarísku. SHA eru liðsmannasamtök og þau verða að vera óháð öllum pólitískum flokkum. Því þarf að berjast þar innan gegn öllum tilraunum fulltrúa einstakra flokka til að afvegaleiða baráttuna. Virk fjöldasamtök eru ein fær um að leiða kröfurnar fram til sigurs: Ísland úr NATO - Herinn burt.

## Matthías V Sæmundsson form. 21. ágúst-hreyfingar:

# „Sem víðtækust eining gagnast alþýðu Tékkoslóvakíu best"

Á stofnfundi 21. ágúst-hreyfingarinnar, sem um er getið á öðrum stað í blaðinu, var ákveðið að fela framkvæmdanefnd hreyfingarinnar að hafa samband við miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga (SHA) með tilboð um samstarf um aðgerðir 21. ágúst í tilefni þess að 10 ár eru liðin frá innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu. Við hittum að máli formann 21. ágúst-hreyfingarinnar, Matthías V. Sæmundsson, og inntum hann frétta af framgangi þessa máls.

– Nefndin hefur nú þegar sent bréf til miðnefndar SHA, þar sem hreyfing okkar er kynnt og jafnframt boðið upp á samstarf um aðgerðir 21. ágúst. Eins og fram kemur í bréfinu, telur hreyfingin að sem víðtækust eining um Tékkóslóvakíu-málið dugi best til að gagnast tékkneskri alþýðu. Í því kemur einnig fram að við teljum hreyfingarnar eiga að mætast á jafnréttisgrundvelli og ræða sameiginlegan grundvöll slíkra aðgerða. En það er náttúrulega ljóst að við munum ekki fallast á neina þá samfylkingu sem ekki bendir á annars vegar raunverulegt ástand í Tékkóslóvakíu og hins vegar raunverulegan óvin alþýðunnar þar. Í fyrra brá svo við að SHA uppfylltu mjög tæplega þessar kröfur sökum áhrifa ýmissa afturhaldsafla inna samtakanna. SHA höfnuðu þá einnig samvinnu við 21. ágúst-nefndina, sem starfaði á svipuðum grundvelli og við. En við væntum þess að í ár verði annað uppi á teningnum og að miðnefnd sjái skyldur sínar – að styðja þá baráttu sem í dag fer fram hér á landi gegn sovésku heimsvaldastefnunni. Það er e.t.v. prófsteinn á heilindi hennar í andheimsvaldasinnaðri baráttu.

– "Afturhaldsöfl" – hver eru þau ?

– Það er von þú spyrjir. Í stefnuskrá SHA er skýrt tekið fram að samtökin skuli berjast gegn allri heimsvaldastefnu. Reyndin hefur hins vegar verið sú að ýmis pólitísk öfl – og þar á ég fyrst og fremst við trotskíista Fylkingarinnar og Sovétsinnaða Alþýðubandalagsmenn – hafa komið í veg fyrir að þessari stefnu væri framfylgt. Þeir hafa lokað augunum fyrir heimsvaldaásælni sovétríkjanna víðs vegar um heim, haldið uppi vörnum fyrir skrifræðisauðvaldið í Kreml og réttlætt eða þagað yfir blóðugum yfirgangi Sovétmanna til að mynda í Afríku. Þetta köllum við afturhald. "Andheimsvaldastefna" þessara manna er falsið eitt. Í raunveruleikanum hafna þeir baráttu gegn einni grimmilegustu heimsvaldakúgun sem viðgengst í heiminum í dag. Eitt af grundvallarvígorðum 21. ágúst-hreyfingarinnar er hins vegar Ísland úr Nató – herinn burt. Hreyfingin telur nefnilega að ærleg baráttustefna hljóti að taka afstöðu gegn allri heimsvaldastefnu, hvaða nafni sem hún nefnist. Afturhaldsöflin í SHA uppfylla ekki þá kröfu. Þeim verður því að ryðja burt úr andheimsvaldasinnaðri hreyfingu. Sama gildir um Rússadindlana í "BGH – Baráttuhreyfingu gegn heimsvaldastefnu". Hitt er svo annað mál að við álítum mikinn meirihluta herstöðvaandstæðinga vera ærlega andheimsvaldasinna. Þess vegna er bréfið sent, og við heitum á þetta fólk að veita okkur öflugan stuðning, því að okkar barátta er þeirra barátta.

– Hefurðu dæmi um dindilmennsku BGH-manna við Rússa ?

– Vissulega en svo að eitt lítið dæmi sé tekið má nefna afstöðu formanns þessara "baráttuhreyfingar" á fundi sem haldinn var með fulltrúa erítreísku frelsishreyfinganna í vor. Örn Ólafsson lét sig nefnilega hafa það að sitja hjá einn manna í atkvæðagreiðslu um hvort styðja bæri baráttu Erítrea gegn eþíópísku kúgunarvaldi og sovéskri heimsvaldastefnu.

– Að lokum Matthías, – í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins sagðir þú í viðtali að reynt skyldi að samfylkja með SHA um aðeins eina meginkröfu, en nú er þetta almennara orðað, bæði hér á undan og í bréfinu til SHA. Hvað veldur ?

– Fyrst og fremst það að við viljum gefa SHA færi á að taka upp baráttuna gegn stríðshættunni og risaveldunum. Það væri náttúrulega út í hött að svipta þá þeirri ánægju. Að öðru leyti er afstaða okkar sú að hreyfingarnar mætist á jafnréttisgrundvelli og komist verði að sameiginlegri niðurstöðu um kjörorðagrundvöll mótmælaaðgerða. Þetta var niðurstaða almennra og frjórra umræðna á stofnfundi 21. ágúst- hreyfingarinnar.

## SMÁ...

Búast má við að átök Alþýðubandalags og Alþýðuflokks um bitlinga og áhrif í forystu verkalýðshreyfingarinnar komi meira upp á yfirborðið á næstunni og harðni. Báðir ætla sér að vaxta pund sitt sem best á þeim slóðum. Eins og menn vita er ASÍ-forystan í raun höfuðlaus, þar eð Björn Jónsson veiktist í vetur og hefur ekki komið til starfa á ný. Mun útlit fyrir að hann taki ekki þátt í störfum fyrir ASÍ í bráð. Í fjarveru Björns hafa Ásmundur Stefánsson, hagfræðingur og uppfræðari Stjórnunarfélags Íslands, og Haukur Már Haraldsson, blaðafulltrúi ASÍ, stjórnað ASÍ-bákninu. Snorri Jónsson, varaforseti ASÍ, hefur að mestu látið sér nægja að naga blýanta á kontórum ASÍ. Þykir Alþýðubandalagsforystunni hann full veikur hlekkur í verkalýðsforystunni og vilja síður styðja hann til frekari áhrifa. Er það Guðmundur J(aki) sem fleiri vilja dubba upp sem nýjan ASÍ-forseta. Kratar Alþýðuflokks vilja halda forsetasætinu fyrir sig, þrátt fyrir fjarveru Björns, og munu væntanlega tefla Karli Steinari Guðnasyni fram gegn Jakanum.

## Stofnfundur 21. ágúst-hreyfingarinnar:

# Mikill hugur í fólki

Þann 18. júlí sl. var haldinn stofnfundur 21. ágúst-hreyfingarinnar, eins og frá er greint í síðasta blaði. Fundurinn hófst með því að samþykktur var vígorðagrundvöllur hreyfingarinnar, en síðan skýrði einn af þeim sem áttu sæti í frumkvæðisnefnd frá því sem gert hafði verið og frá helstu hugmyndum nefndarinnar um framhaldið. Þá voru lesin ljóð og síðan skipt niður í hópa og rædd öll helstu málefni tengd starfinu og stefnunni. Eftir hópaumræður skiluðu hóparnir niðurstöðum og síðan voru almennar umræður.

Ákveðið var að framkvæmdanefnd yrði falið að bæta við vígorðum, sem hreyfingin styddi, og var stungið upp á ýmsu í því sambandi, s.s. stuðningi við Helsinki-hópinn, Charta 77, pólska verkamenn, frelsisbaráttu Eritrea o.fl.

Ákveðið var að fela framkvæmdanefnd að hefja viðræður við Samtök herstöðvaandstæðinga um sameiginlegar aðgerðir 21. ágúst, og að þær umræður færu fram á grundvelli hinna fjögurra aðalkrafna 21. ágúst-hreyfingarinnar.

# Tékkaslóvakía fyrr og nú 3. grein

# 21. ágúst 1968

**Í 12. og 13. tbl. Vbl. voru fyrstu tvær greinarnar í greinaflokki um innrásina í Tékkóslóvakíu, sögu hennar og eftirköst. Nú er komið að segja dálítið frá sjálfri innrásinni 21. ágúst 1968 og innanlandsástandinu á þeim tíma. Ástæðurnar fyrir innrásinni fléttast einnig inn í, en meira var farið út í þá sálma í greininni í 13. tbl.**

Óveðursskýin á pólitískum himni Tékkóslóvakíu hrönnuðust upp þegar líða tók á sumarið árið 1968. 21. ágúst brast loks á: Kremlverjum þótti óhjákvæmilegt að grípa inn í þróun mála í landinu með vopnavaldi. Aðfararnótt 21. ágúst streymdi herstyrkur frá fimm Varsjárbandalagslöndum yfir landamæri Tékkóslóvakíu; frá Sovétríkjunum, Póllandi, Búlgaríu, Austur-Þýskalandi og Ungverjalandi. Innrásarliðin komu bæði í lofti og á landi. Fyrsta skriðan taldi 200 þús. manns, en næstu viku á eftir fjölgaði hermönnunum í um hálfa milljón. Yfir 500 skriðdrekar skröltu um götur Prag, einnig mátti kenna í tækjabúnaði innrásarliðsins sovésk-smíðaðar stríðsvélar sem búnar voru infrarauðum leitarljósum. Slíkt hafði enginn séð áður utan Sovétríkjanna.

Dubcek og margir fleiri leiðtogar Tékkóslóvakíu höfðu vitað all-lengi að hernám undirbúið í Kreml gæti verið yfirvofandi. En þeir þögðu um þann grun sinn af mörgum orsökum. Alþýða landsins var því óviðbúin atburðunum í ágúst. Brésjnef og félagar hans vissu þetta, og út frá hrein-herfræðilegu sjónarmiði hefðu sovésku heimsvaldasinnarnir ekki þurft að beita nema hluta þess herafla, sem þeir notuðu, til að hernema Tékkóslóvakíu. En trúlega er að þeir hafi viljað skapa upp-



lausn í landinu og ótta meðal fólksins, einnig að þeir hafi viljað vera viðbúnir því að kæfa í blóði hverja og eina tilraun til andófs gegn innrásinni. Og það var gert.

Sovéska njósnanetið KGB gegndi mikilvægu hlutverki í innrásinni. KGB-njósnarar höfðu komið sér fyrir á mikilvægum stöðum í stjórnarstofnunum, á flugvöllum og víðar. Þeir söfnuðu upplýsingum fyrir innrásina og meðan á henni stóð. Hins vegar tókst þeim ekki að virkja tékknesku öryggislögregluna StB til að handtaka "vafasamt fólk" eða starfa á annan hátt í þágu innrásaraflanna. Innrásaröflin fengu því mun kaldari kveðjur Tékka en Kremlverjar áttu von á, andstaðan var meiri m.a.s. langt inn í raðir ríkiskerfisins sem borgarastétt Tékkóslóvakíu hafði byggt upp. Að þessu leyti misheppnaðist innrásin pólitískt, en heppnaðist herfræðilega.

### HVERS VEGNA INNRÁS?

Ástæðurnar eru margar, sumar höfum við nefnt í 12.tbl. Lýðréttindahreyfing verkalýðs og menntamanna í Tékkóslóvakíu krafðist frelsis til skoðanaskipta – þar með réttinda til að gagnrýna Sovétríkin. Í öðru lagi er Tékkóslóvakía hernaðarlega mikilvægt landssvæði í Evrópu. Sovétríkin höfðu enga hermenn í landinu fyrir innrásina, en hins vegar í Austur-Þýskalandi, Póllandi, Búlgaríu, og Ungverjalandi. Innrásin styrkti því hernaðarstöðu sovésku heimsvaldastefnunnar. Í þriðja lagi vildu Kremlverjar styrkja efnahagsstöðu sína í Tékkóslóvakíu, m.ö o. auka arðrán Sovétríkjanna í landinu – sem var þó nóg fyrir! Efnahagsstefna Sovétríkjanna gagnvart Komeconlöndunum er sú, að gera þau gersamlega háð sér: Þvinga þau til að grafa gröf sjálfræði sínu. Efnahagsstefna Dubcek-stjórnarinnar leitaðist við að treysta sjálfstætt efnahagskerfi í Tékkóslóvakíu og í henni var fólgin viss hótun við arðránsaðstöðu Sovétríkjanna í landinu. Innrásin stöðvaði framkvæmd þessara hugmynda og í dag er Tékkóslóvakía efnahagslegt (jafnt sem pólitískt) leppríki Sovétríkjanna.

### ANDSTAÐAN '68

Eitt hið fyrsta sem innrásarherirnir gerðu, var að handtaka Dubcek og aðra leiðtoga "Kommúnista"flokksins og flytja þá nauðuga til Sovétríkjanna. 22.ágúst söfnuðust um 1000 flokksfélagar saman á fund í verksmiðju í útjaðri Prag. Þeir komu hvaðanæva að úr landinu og er aðdáunarvert að þeim skyldi takast að koma á svo stórum fundi þekktra flokksmanna á laun. Fundurinn fordæmdi innrásina, en hvatti ekki til andstöðu. Dubcek var endurkjörinn leiðtogi, en þá var hann fangi Brésjnefs í Moskvu. Það að auki var hann á sama tíma neyddur til að skrifa undir þakkarplagg fyrir innrásina, þar sem sagði að hún hefði verið "réttmæt og nauðsynleg". Í október sama ár var svo undirrituð yfirlýsing um að sovéskir herir skuli vera áfram í landinu til að "verja það vesturþýskri ásælni".

Allir leiðandi menn í her Tékka lögðust gegn vopnaðri mótspyrnu gagnvart innrásinni. Þeir gáfu því ekki eina einustu fyrirskipun þar að lútandi.

Eina raunverulega andstaðan kom því frá tékkneskum verkalýð og alþýðufólki – í trássi við boðskap Dubceks. Þetta var fólk sem hafði enga pólitíska forystu, engin samtök, engin vopn ( ef undan er skilið grjót og heimatilbúnar bensínsprengjur ! ). En sjálfsprottin ákveðin og virk andstaða alþýðunnar verðskuldar virðingu okkar og þakklæti. Með heimatilbúnum vopnum tókst að granda skriðdrekum á götum Prag og erlendir hermenn voru drepnir. Ólöglegar útvarpsstöðvar og blöð hófu starfsemi og hvöttu fólk til baráttu. Vegvísar voru rifnir niður eða þeim snúið á staurum og húsveggjum. Þannig voru hersveitirnar leiddar á villigötur. Í nokkrum bæjum var efnt til mótmælaaðgerða. Götuvígi voru byggð til að hefta ferðir skriðdreka. Minnst 200 Tékkar létu lífið í þessum átökum og yfir 1000 slösuðust. Í verksmiðjum var efnt til mótmæla og verkfalla. Fjöldi fundasamþykkta gegn innrásinni varð til.

### HREINSANIR

Og fór Brésjnef að "þrífa húsið". Strax eftir innrásina hófust hreinsanir í flokknum í Tékkóslóvakíu. Um hálf milljón félaga, sem voru andsnúnir Sovétríkjunum, var rekin úr flokknum. Dubcek var skipt út fyrir quislinginn Husak árið 1969. Nokkur verkalýðssamtök og önnur félög voru leyst upp og bönnuð. Þekkt baráttufólk missti vinnuna.

Í upphafi árs 1969 brenndi stúdentinn Jan Palach sig til bana í mótmælaskyni við hersetuna. 800 000 manns fylgdu honum til grafar.

Mótmælin blossuðu upp á ársafmæli innrásarinnar og sjaldan hefur sigri í íþróttum verið fagnað eins innilega og þegar Tékkar sigruðu Sovétmenn í ísknattleik. Brésjnef sendi vopnaða lögreglu til að berja niður uppþotin. Í Prag var sungið á kránum og Sovétríkjunum bölvað upphátt og í hljóði. Þannig birtist stundum ekki mikið til að andstaðan kæmi upp á yfirborðið.

Í dag, 10 árum eftir innrásina, er friðsælla á yfirborði þjóðlífs Tékkóslóvakíu. Helkrumlur sovéska fasismans, sem opinberlega kennir sig við sósíalisma og Lenín, en reiddar yfir landinu og berja niður allar andófsaðgerðir, smáar og stórar. En samt hafa borist fregnir um andófshreyfingar í landinu, fyrst og fremst hreyfingar sem að litlu leyti beina spjótum sínum gegn Sovétríkjunum og hersetu þeirra, heldur leggja höfuðáherslu á lýðréttindi. Þekktust þessara hreyfinga er Charta 77. Aðalatriði baráttukrafna Charta 77 eru: Tjáningarfrelsi, trúfrelsi, frelsi frá dómskerfinu, kröfur um verkfallsrétt og önnur fagleg réttindi, kröfur um rétt til að stofna félög og samtök, gegn árásum á einkalíf fólks, frelsi til að ferðast.

Charta 77 er fyrir lýðræði, móti fasisma. Hreyfingin er bein og óbein ógnun við kúgun Sovétríkjanna og leppa þeirra og ógnar því veldi Brésjnefs. Undir Charta 77-yfirlýsinguna hafa skrifað verkamenn, menntamenn og bændur og mjög almennur stuðningur alþýðu er við hana. Það er gamla lygin um að þeir styðjist við CIA til að berjast við KGB, og er Charta 77 með risavöxnum boðum. Hreyfingin er breið samfylking í Tékkóslóvakíu fyrir lýðræði. Okkur ber því að styðja hana með ráðum og dáð.





## Greinarflokkur um Kína

# Lífskjör og lífshættir í Kína

### GAMLI TÍMINN

"Nei ég er ekki fædd hérna, ég kom að sunnan fyrir frelsun og gekk alla leið og betlaði mat á leiðinni. Foreldrar mínir urðu að selja systur mína og ég hef ekki fundið hana síðan" sagði okkur gömul kona sem við ræddum við um gamla tímann. "Þá var örbirgðin ægileg. Við vissum aldrei hvað hlutirnir kostuðu, það var svo mikil verðbólga. Við fengum launin okkar borguð í peningum sem höfðu ekkert gildi og ef við eyddum þeim ekki strax þá var ekkert hægt að kaupa næsta dag. Eftir frelsun er þetta allt öðruvísi, engar verðbreytingar svo við vitum nákvæmlega hvað hlutirnir kosta. Við höfum það dásamlega gott núna. Við hjónin erum bæði komin á eftirlaun, sem eru 70% af þeim launum sem við höfðum, en við fáum líka alla hugsanlega læknisaðstoð ókeypis, líka ef við þurfum að fara á sjúkrahús eða til sérfræðinga."



Þrír félaganna úr hljómsveitinni sem lék fyrir sendinefnd EIK(m-l) í Tatsing. Mynd Verkalýðsblaðið

Verðbólgan á Kuomintang-tímanum var óskapleg. T.d. að hlutur sem kostaði 1 yuan (kínverska mynteiningin) árið 1937 kostaði um 8.500.000.000-000 yuan árið 1949, þegar gamla tímanum lýkur. Þetta er vissulega heimsmet. Líf alþýðunnar í Kína var ömurlegt. Við á Íslandi þekkjum dável þá nagandi óvissu og óöryggi sem verðbólgan skapar, þó hún sé hér aðeins örlítið brot af því sem hún var í gamla Kína.

### NÚ ER VERÐLAG STÖÐUGT Í KÍNA

Hvers vegna er engin verðbólga í Kína? Í Kína er ekki auðvaldsþjóðfélag sem notar verðbólguna til að afla meiri gróða fyrir auðvaldið. Í Kína er sósíalismi, sem lýtur stjórn alræðis öreiganna. Þar er markmið framleiðslunnar ekki gróðasöfnun, heldur er markmiðið að fullnægja þörfum alþýðunnar. Þar er framleiðslan skipulögð sem heild, þar er engin samkeppni sem sprengir upp verðið, þar eru engir auðhringir sem háfa inn gróða í krafti þess að einoka markaði.

Fimm manna fjölskylda í Shanghai taldi upp fyrir okkur alla kostnaðarliði sína. Það var auðvelt af því að þeir höfðu ekkert breyst í áratugi. Alls hafði fjölskyldan 196 yuan í tekjur á mánuði. Sem dæmi, þá greiddi hún 5,6 yuan í húsaleigu. Þegar allt var greitt þá voru um 20 yuan afgangs, sem fjölskyldan lagði í banka til spörunar.

### KÍNA ER ÞRÓUNARLAND

Kína er hluti þriðja heimsins. Þar er iðnþróun og vélvæðing ekki komin á það stig sem þekkist t.d. í Evrópulöndum. Iðnaðaruppbyggingin er þó í fullum gangi og munum við fjalla um hana í næstu grein. Staða Kína sem þróunarlands gerir það að verkum að framleiðni er ennþá ekki nægjanlega mikil til að halda upp lífskjörum alþýðunnar á því stigi að hver fái laun eftir þörfum og hver inni af hendi vinnu eftir getu. Í Kína er því notað láglaunakerfi sem tryggir jafna og trygga afkomu. "Tilgangur láglaunakerfisins", sagði félagi Tse framkvæmdarstjóri niðursuðuverksmiðju einnar sem við heimsóttum, "er í fyrsta lagi að forðast mikinn launamismun og í öðru lagi sá að Kína er enn þróunarland sem býr ekki yfir efnislegum gnægðum og það eru aðeins 28 ár frá frelsun og því er þetta láglaunakerfi sniðið að okkar aðstæðum". Láglaunakerfið gildir allstaðar frá toppi og niðurúr. Kerfið samanstendur úr 8 launaþrepum og er munurinn á milli þrepa aðeins nokkur yuan. Flestir fá laun á miðþrepunum en fáir eru í efstu og neðstu. Það eru verkamenn með laun í efsta þrepi og líka því neðsta, en þeir eru fáir." sagði félagi Tse. "Flokksmenn og aðrir en verkamenn fá laun eftir öðru launakerfi og er þá mælt með því fólki af verkafólkinu í hverjum vinnusal eða vinnustað ef verksmiðjan er það lítil að hún skiftist ekki í vinnusali. Launin eru þá ákveðin eftir hæfni og pólitískri þekkingu. Laun leiðandi flokksfélaga eru ákveðin eftir starfsaldri, pólitískri þekkingu og hæfni. Leiðandi félagar á öllum sviðum, sem bera sérstaka ábyrgð og vinna stjórnunarstörf, voru áður verkamenn, en eru kosnir til þessara starfa af verkafólkinu". Hvarvetna um allt Kína er 8 tíma vinnudagur og er ekki um neina yfirvinnu að ræða, enda nægja launin vel fyrir framfærslu. Hvað skyldi svo kínversk alþýða gera við frítímann?



Ný íbúðahverfi rísa hvarvetna í Kína. (Mynd VB)

### TREYSTUM Á EIGIÐ AFL – STÖNDUM Á EIGIN FÓTUM

Hvar sem við komum sáum við þrjú atriði tengjast. Þó svo að skilin milli vinnutíma og frítíma séu fastákveðin, þá er hvergi rofið sambandið í hinni byltingarsinnuðu stefnu, sem leidd er af Kommúnistaflokki Kína. Byltingarsinnuðu starfi er haldið áfram utan hins eiginlega vinnutíma. Þau þrjú atriði sem við tókum skýrt eftir eru: 1) Skipulegt starf til að efla sjálfsbjörg alþýðunnar á öllum sviðum, 2) skipulegt starf að menningarmálum, uppbygging alþýðulista, sem byggir annarsvegar á hefðbundinni alþýðulist og hinsvegar á hinni nýju byltingarsinnuðu alþýðulist sem byltingin og nýja samfélagið ber með sér, og 3) skipulegt pólitískt nám, sem tekur fyrir bæði fræði frumkvöðla marxismans, Marx, Engels, Lenín, Stalín og Mao Tsetung, og pólitískt nám sem miðast við líðandi stund og auðvitað fléttast þetta svo saman í eina heild.

Iðnaðarverkalýðurinn notar hluta frítíma síns til ræktunar. Afrakstur ræktunarinnar kemur til skifta innan þeirrar heildar, sem að henni stendur. Tökum sem dæmi Lið nr. 49 í Tatsing, sem telur 93 verkamenn og hefur sem aðalverkefni að sjá um 36 olíubrunna og 25 vatnsdælur á tæplega 7 $km^2$ svæði. Þessi hópur stundar ræktun í frítímanum og hefur náð þeim árangri að vera sjálfum sér algerlega nægur með grænmeti og á meira að segja afgang. Auk þess elur hópurinn svín og fær af þeim mikla búbót. Þessi hópur samanstendur að stórum hluta af ungum verkamönnum, sem notar líka frítímann til að sinna pólitískri fræðslu utan starfs síns svæðis, en einnig sinnir hópurinn menningarmálum svo sem tónlist og var sendinefndinni boðið að hlusta á hljómsveit hópsins leika nokkur lög, en hann var að æfa sig þegar okkur bar að garði. Lék hljómsveitin bæði gamalgróin lög og ný byltingarsinnuð lög. Þá sungu bæði karl og kona einsöngslög með undirleik hljómsveitarinnar. Okkur þótti það heldur ótrúlegt að þetta listafólk væri úr hópi 93 olíuverkamanna, en við fengum staðfestingu á að svona er hægt að gera í sósíalismanum, þar sem þvílíkt og við upplifðum hjá Liði nr.49 í Tatsing var alls ekkert einsdæmi. Einum félaga sendinefndarinnar varð að orði eftir þessa stuttu hljómleika og skoðunarferðina á vinnusvæði Liðs nr.49 í Tatsing:"Það eru engin takmörk fyrir því hverju alþýðan getur áorkað, þegar hún fær sjálf að ráða og er ekki lengur arðrænd og undirokuð, eftir sósíalísku byltinguna".

# Þannig verður VERKALÝÐSBLAÐIÐ til

Myndirnar sem fylgja þessum línum sýna nokkra þætti í vinnsluferli eins tbl. Verkalýðsblaðsins. Meginþungi starfsins fer fram á tveimur stöðum, í húsnæði ritstjórnar og dreifingarstjórnar í Reykjavík og í húsnæði nýrrar prentsmiðju EIK(m-l), Jósefs-prenti s.f., í Kópavogi. Þeirri aðstöðu hafa samtökin og blaðið komið sér upp með söfnunarherferðum meðal félaga, stuðningsmanna og vina og með aukinni útbreiðslu Verkalýðsblaðsins. Lesendur standa því einir undir blaðinu – og svo mun verða áfram.

Fram til þessa hefur hvert einasta handtak í útgáfu blaðsins verið unnið í sjálfboðavinnu. Ritstjórn er í sambandi við fréttaritara á vinnustöðum og í skólum, og fær frá þeim upplýsingar, ábendingar og greinar til birtingar. Ritnefnd leggur línur fyrir hvert blað og heildarstefnu þess í samræmi við stefnu Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista). Hún skrifar síðan greinar eða fær aðra til að skrifa efni eftir pöntunum. Einnig senda lesendur inn óskir um efni eða efni í blaðið. Það þarf að efla mjög skrif lesenda sjálfra og styrkja fréttaritarakerfið. Erlent efni blaðsins er að sumu leyti unnið sjálfstætt, en stærstur hlutinn er unninn með hliðsjón af útgáfuefni marx-lenínista og annarra baráttusinna víða um heim. Blaðið fær óhemju mikið af pósti á hverjum degi úr öllum heimsálfum.

Eftir að ritstjórn hefur gengið frá efni hvers blaðs, er það sent til Jósefs-prents. Þar er það vélritað í dálka og dálkarnir og fyrirsagnir límdar á síðurnar eftir kúnstarinnar reglum. Þar með fær blaðið endanlegan svip. Síðan eru búnar til filmur af síðunum og eftir filmunum plötur til að prenta blaðið með. Þegar blaðið kemur úr prentun, er upplagið flutt á ný í aðsetur dreifingarstjórnar/ritstjórnar. Þar tekur hópur fólks við því og gengur frá blaðinu til áskrifenda hérlendis og erlendis, gengur frá blaðapökkum til umboðsmanna blaðsins víða um land og erlendis og afhendir það félögum til sölu í Reykjavík og nágrenni. Þannig gengur vinnsla blaðsins okkar fyrir sig í hvert sinn.

Við sögðum áðan að allt væri unnið hér í sjálfboðavinnu. En umsvif blaðsins aukast stöðugt: kaupendum fjölgar ört, tækjakostur batnar, stöðugt meira efni berst – og þörfin fyrir stærra og betra blað er sífellt brýnni. Við þurfum því innan skamms tíma að ráða okkur starfsmann hluta úr degi.

Önnur stór skref sem við þurfum að stíga eru fjölgun síðna í blaðinu og síðan vikuleg útgáfa. Enn eitt verkefni er að kaupa setningarvél til Jósefs-prents, til að bæta prentgæði blaðsins og annars útgáfuefnis hreyfingarinnar. En hér er aðeins drepið á einstaka atriði sem bíða okkar og þau ekki nefnd í forgangsröð.



Félagar úr dreifingar hóp búa út blaðið til áskrifenda og umboðsmanna.

Allt þetta þarf að gera og allt þetta ætlum við að gera því að baráttan krefst þess að við tökum stór skref og djörf.

"Pravda", dagblað bolsévika í Rússlandi plægði akurinn fyrir sigur Októberbyltingarinnar 1917, eins og Jósef Stalín benti á. Látum VERKALÝÐSBLAÐIÐ gegna hliðstæðu hlutverki á Íslandi og "Pravda" hafði í Októberbyltingunni! Eflum VERKALÝÐSBLAÐIÐ! Eflum marx-lenínska hreyfingu á Íslandi!

Opna síðasta tbl. sett upp í prentsmiðjunni. Það eru ófá handtökin við útgáfu blaðsins!

Aðsetur ritstjórnar. Hér verður ritstjórn til viðtals á föstum skrifstofutímum og er ætlunin að auglýsa það nánar með haustinu. (Myndir: VB).



Hér fer fram sjálf prentun blaðsins. Síðustu 2 tbl. voru prentuð í eigin prentsmiðju.



Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu

## Kampútsea:

# „Víetnam verður að láta af árásarstefnu sinni gagnvart Kampútseu"

Á tímabilinu 15. til 29. júní síðastliðinn gerði víetnamski herinn enn á ný innrás inn í austurhluta Kampútseu. En byltingarher Kampútseu tókst aftur að reka innrásarherinn af höndum sér. Í innrásinni misstu Víetnamar 3500 hermenn og 19 skriðdreka, og þeir sem lifðu af voru umkrigdir og þvingaðir til baka inn fyrir landamærin.

Vegna þessara atburða gaf upplýsingarráðuneyti Kampútseu í Phnom Penh út fréttabréf þann 1. júlí. Þar segir m.a.

"Eins og í fyrri innrás, frömdu víetnömsku árásar herirnir grimmileg ódæðisverk; þeir eyðilögðu hrísgrjónaakra og annað ræktað land, lögðu þorp í rústir og myrtu íbúana.

Sú staðreynd að Víetnam heldur ákaft áfram árásum sínum á Kampútseu sýnir ljóslega hið sanna eðli víetnömsku árásar- og hernámssinnanna. Það er ljóst að fyrirætlanir Víetnams, að innlima Kampútseu í "The Indochina Federation" og mynda "einn flokk, eina þjóð og eitt land" sem tilheyri Víetnam, sýna svikult og fasískt eðli sem er í engu frábrugðið eðli Hitlers. Hvers konar bylting er þetta? Hvers konar sósíalismi er þetta? Hvers konar óháð land mun þetta verða? Víetnam hefur ráðist gegn Kampútseu, virt að vettugi sjálfstæði og sjálfræði Kampútseu og ekki virt rétt kampútseönsku þjóðarinnar til yfirráða yfir sínu eigin landi. Á þennan hátt hefur Víetnam rekið stórveldapólitík gagnvart Kampútseu og reka í raun útþenslustefnu í allri Suð-austur-Asíu, í óþökk almenningsálits heimsins. Víetnam hefur beðið hnekki á öllum sviðum, jafnt heima fyrir sem á alþjóðavettvangi.

Alþýða og Byltingarher Kampútseu hefur lengi vitað af hinu grimma eðli Víetnams. En Lýðveldið Kampútsea álítur, að ef Sósíalíska lýðveldið Víetnam kærir sig í raun og veru um vináttu Kampútseu, verður það að sýna það í verki. Víetnam verður að hætta árásum sínum á Kampútseu, hætta að sér í innri málefni Kampútseu, hætta tilraunum sínum til stjórnarbyltingar í Kampútseu, og Víetnam verður að virða í verki sjálfstæði, sjálfræði og rétt Kampútseu til yfirráða yfir eigin landsvæðum. Ef Víetnam gerir þetta mun vinátta beggja aðila komast á. Og það mun verða mikil vinátta.

Það væru engir erfiðleikar, ef Víetnam léti af stefnu sinni gagnvart Kampútseu. Allt veltur á Víetnam. Ef Víetnam heldur uppteknum hætti, og setur sig upp á móti friði og gagnkvæmum samskiptum milli landa, getur Víetnam ekki komist hjá ósigri og eyðileggingu"



Börnin í Kampútseu hafa ríka ástæðu til að brosa. Þau eru fædd í landi þar sem hungur sjúkdómar og stríð voru daglegt brauð, undir kúgun heimsvaldastefnunnar. Í dag njóta þau skólagöngu, nægs matar og heilsugæslu, og sjálf leggja þau hönd á plóginn við uppbyggingu sósíalismans í landi sínu.



Fólkið er vopnað í Kampútseu og reiðubúið að verjast erlendum árásaröflum.

## EIK (m-l) álykta: Loftflutningana ber að leggja niður!

Sem kunnugt er hafa þjóðfrelsisöfl Erítreu átt í 17 ára baráttu fyrir sjálfstæði lands síns sem ranglega er talið hluti Eþíópíu. Nýlendu- og afturhaldsstjórn Mengistu, studd af Sovétríkjunum og Kúbu, reynir nú hvers kyns ógnaraðgerðir til þess að brjóta þjóðfrelsishreyfingarnar á bak aftur - ELF og EPLF. M.a. eru nú gerðar miklar sprengjuárásir á óbreytta borgara og aðra íbúa frelsuðu svæðanna í Erítreu, en þau eru um 96% landsins.

Nú hefur Hjálparstofnun kirkjunnar hafið matvæla- og lyfjaflutninga til borgarinnar Asmara í Erítreu. Borg þessi er hernumin af Eþíópíuher, en auk hans eru þar a.mk. 3500 kúbanskir málaliðar Sovétmanna. Erítreumönnum er enn byggja borgina er haldið í járngreipum hernámsliðsins. Hjálparaðgerð kirkjunnar er skipulögð í samvinnu við eþíópískar stofnanir og nær öruggt að matvælin og lyfin verða notuð handa hernámsliðinu en ekki erítreískum borgurum.

Til loftflutninga til Asmara hefur kirkjan ráðið flugfélagið ISCARGO.

Með þessari fréttatilkynningu vilja Einingarsamtök kommúnista (m-l) og Verkalýðsblaðið, sem hafa góð samskipti við þjóðfrelsishreyfingarnar í Erítreu, vekja athygli á staðreyndum þessa máls. Hjálparstofnun kirkjunnar á að hverfa frá samvinnu sinni við hinar eþíópísku stofnanir, en senda þess í stað öll hjálpargögn til erítreískra stofnanna, sem ekki eru hafðar nú með í ráðum skv. fregnum frá Karúm í Súdan. Ennfremur fela flugferðir flugvéla til Asmara í sér þá hættu að liðsmenn þjóðfrelsisaflanna skjóti á þær, ef vitað er að þær flytji vistir til hermanna Mengistu-stjórnarinnar.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar
EIK(m-l)
Ari T. Guðmundsson



Hér sjást skæruliðar sem starfa við ljósmyndadeild ELF-frelsishreyfingarinnar. Deildin er starfrækt á víglínunni og á frelsuðu svæðunum í Eritreu. Íbúar Eritreu þurfa að lifa í stöðugum ótta við loftárásir Eþíópíuhers. Öll aðstoð við þá kemur sér vel.

## Loftbrú Hjálparstofnunar kirkjunnar: Afturhaldssöm aðgerð

Hjálparstofnun kirkjunnar hefur komið á loftbrú milli erítreísku hafnarborgarinnar Assab og höfuðborgar Erítreu, Asmara, sem er hersetin Eþíópíuher, en jafnframt ríkir umsátur um borgina og eru skæruliðar frelsishreyfinga Erítreu þar að verki. Í Asmara eru 250 þús. óbreyttir borgarar og 20 þús. hermenn, þar af 3500 Kúbanir. Borgin er að mestu vatns- og rafmagnslaus, matvæli eru þar af skornum skammti, a.m.k. fyrir íbúa borgarinnar, því þau verða öll að koma loftleiðina. Um loftbrú Hjálparstofnunarinnar eru flutt matvæli lyf, sem eru gjafir til eþíópísku stjórnarinnar frá löndum eins og Hollandi, V-Þýskalandi og Bandaríkjunum.

Talsmenn Hjálparstofnunar kirkjunnar vilja meina að þeir hafi tryggingu fyrir því að þessi hjálp muni koma óbreyttum íbúum Asmara til góða, en verði ekki notuð af eþíópíska hernum, en þessi trygging virðist vera í hæst máta ótrygg. Í fyrsta lagi hafa þeir loforð Eþíópíustjórnar um að matvælum verði útdeilt meðal óbreyttra, og í öðru lagi hafa þeir náið samstarf með ýmsum hjálparstofnunum í Eþíópíu, þá fyrst og fremst kirkjulegum samtökum. Þá vill Hjálparstofnunin meina að hún hafi samband við báðar frelsishreyfingarnar í Erítreu (ELF og EPLF), og að þær viti um loftbrúna og líti mjög jákvætt á hana. Þá var fullyrt að í febrúar í ár hafi verið tekið upp samstarf við frelsishreyfingarnar, en þá hafi EPLF verið sendar kornvörur og lyf, og ELF sent eitthvað álíka í júní.

En hvað segja talsmenn frelsishreyfinganna EPLF og ELF um þessar fullyrðingar? Báðar hreyfingarnar segjast ekki hafa tekið á móti hjálp frá Hjálparstofnuninni og að þær fordæmi loftbrúna milli Assab og Asmara, þar sem hún þjóni eingöngu eþíópísku hernámssinnunum. Þá benda hreyfingarnar á að mikil þörf sé á aðstoð á frelsuðu svæðunum í Erítreu, en þau verða æ tíðar fyrir hörðum loftárásum Eþíópíuhers. Það verði því að fá Hjálparstofnun kirkjunnar til að hætta þessum "hjálparsendingum" til Asmara, en hjálpa Erítreu þess í stað í gegn um frelsishreyfingarnar tvær og erítreísku hjálparstofnunina (ERA) og Rauða kross og rauða hálfmána Erítreu (ERCCS). Þetta er eina leiðin nú, til að hjálpa erítreísku þjóðinni í því neyðarástandi sem fasistastjórn Eþíópíu hefur skapað henni.

## Kók í Kreml

Nú hefur verið ákveðið að Coco-cola verði opinber drykkur á Ólympíuleikunum í Moskvu árið 1980. Hin nýja borgarastétt Sovétríkjanna ætlar við það hátíðlega tækifæri að veita kúguðum þegnum sínum frelsi til að bragða á þessum "holla og hressandi" drykk. Kosygin, gosdrykkjafulltrúi Kremlar, tók á móti Coca-cola greifanum J.P.Austin fyrir skömmu. Þeir ræddu væntanlegu um undirbúning kók-veislunnar 1980 og síðan var skrifað undir samninga aðilanna. Fyrir undirskriftina fékk Kosygin ávísun frá Coca-cola greifanum að upphæð þrjár milljónir dollara.

Hin opinbera fréttastofa Sovétríkjanna, Tass, birti fréttastúf í góðum Helsinkianda eftir undirskrift samningsins og sagði að samkomulag Coca-cola og Kremlar væri hagstætt fyrir Ólympíuleikana og myndi auka skilning á milli fólksins í Sovétríkjunum og Ameríku (?). Þá hefur heilbrigðisráðuneyti Sovétríkjanna í Moskvu komist að því að Coca-cola sé mjög hollt heilsu íþróttamanna!

## Leiðtogafundur Einingarsamtaka Afríkuríkja

"Ef við biðjum eitt herveldi um hjálp er við erum í nauðum stödd, getum við verið viss um að annað herveldi blandar sér inn í málin, og að lokum missum við sjálf stjórnina". Þetta voru orð Jaafar Nimeiri forseta Súdans, í ræðu við opnun 15. leiðtogafundar Einingarsamtaka Afríkuríkja, OAU, í Khartoum 18. júlí. Nimeiri forseti, sem var einróma kjörin forseti OAU, sló því föstu, að öll erlend afskipti í afrísk málefni væru óæskileg, og var mikil samstaða um þetta atriði á fundinum. Þá sagði forseti Líberíu, William Tolbert, að "Afríka mun alltaf vera fær um að leysa sín vandamál sjálf".

Á fundinum voru samþykktar yfirlýsingar sem fordæmdu sérstaklega fasistastjórn Vorsters í S-Afríku (Azaníu), og lýst yfir stuðningi við frelsisbaráttuna í Azaníu, sem leidd er af PAC. Lögð var mikil áhersla á samstöðu með arabísku þjóðunum og PLO stutt. Rauði þráðurinn á fundinum var sá að Afríka tilheyrir fylkingu frjálsra ríkja, sem standa utan allra hernaðarbandalaga og "blokkapólitíkur".

## Lausn Begins

Nú hefur stjórn Begins birt áætlun sína um lausn á "Palestínuvandamálinu". Í henni felst, að Vesturbakkinn og Gaza-svæðið munu fá innri sjálfstjórn í fimm ár, en jafnframt munu svæðin vera undir fullri hernaðarlegri stjórn síonista! Begin álítur að þessi takmarkaða sjálfstjórn sé endanleg lausn, bæði fyrir Araba og Gyðinga á þessum svæðum!

Þessi áætlun hefur mætt harðri andstöðu Arabaríkjanna, Bandaríkjanna og jafnvel innan ísraelsku stjórnarinnar, enda er fáránleiki hennar öllum ljós. Áætlunin mun gera allar friðarumleitanir fyrir botni Miðjarðarhafs mikið erfiðari en áður.

# Stofnum kommúniskan flokk 3.

## Maó Tsetung: Styrking og uppbygging flokksins

1. Flokkur okkar er mikill, fortíð hans er glæsileg, stefna hans er rétt. Þetta eru grundvallaratriði, sem leggja verður áherslu á og setja skýrt fram gagnvart öllum félögum á öllum stigum. En það verður einnig að gera þeim ljóst, að til eru vandamál sem leggja verður niður fyrir sér og að á nýfrelsuðu svæðunum verður að gera öflugt átak í uppbyggingu flokksins.

2. Styrking og uppbygging flokksins verður að gerast undir ströngu eftirliti miðstjórnar og stofnana hennar, og samtök á lægri stigum mega í engum tilvikum gera aðeins það sem þau sjálf lystir.

3. Styrkingu flokksins verður að vera lokið á þrem árum. Þau skref sem taka verður eru eftirfarandi. Helgum eitt ár (1951) viðtækri fræðslu um það sem krefjast verður af kommúnistum, svo að allir félagar viti hverjir séu þeir kommúnísku lifnaðarhættir, sem þeim ber að lifa eftir. Á þessu ári verður einnig að þjálfa starfsliða til skipulagslegra starfa. Um leið verður að gera tilraunir með að nota dæmigerðar einingar sem fyrirmynd. Síðan ber að halda áfram styrkingunni í ljósi þeirrar reynslu sem fengist hefur. Í borgunum ætti þetta að geta hafist á árinu 1951. Í styrkingu flokksins skulum við byrja á því að greina frá "fólk af fjórum gerðum". Skiljum síðan á



milli "fólks af annari gerð" og "fólks af þriðju gerð". Knýjum síðan þá sem að lokinni fræðslu standast enn ekki kröfur um flokksaðild til að ganga úr flokknum. En við verðum að tryggja að úrganga þeirra sé af frjálsum vilja þeirra sjálfra og að tilfinningar þeirra séu ekki særðar. Endurtökum ekki það að "flytja til kletta", sem gert var 1948.

4. Taka verður upp stefnu forsjálni við uppbyggingu flokksins í borgum og á nýfrelsuðum svæðum. Í borgunum þarf fyrst og fremst að stofna flokkssamtök meðal iðnaðarverkamanna. Á afskekktri svæðum er það ekki fyrr en eftir að landbótum er lokið, sem rétt er að setja upp flokksdeildir og veita þeim viðtöku sem hafa sannað að þeir séu hæfir til flokksaðildar eftir uppfræðslu. Fyrstu tvö árin ætti fjöldi félaga í afskekktri flokksdeild almennt ekki að fara yfir tíu félaga. Bæði í borgum og sveitum ber okkur að útbreiða fræðslu meðal virkra baráttumanna, sem tilbúnir eru til að taka við henni, um hvað það sé að vera kommúnisti. Eftir slíka fræðslu ber okkur að taka inn þá sem í raun eru hæfir til að gerast flokks félagar.

(VI.kafli ritgerðarinnar "Main Points of the Resolution adopted at the Enlanrged Meeting of the Political Bureau of the Central Committee of the Communist Party of China", 1951, - Þýtt eftir Selected Works of Mao Tsetung, Volume V, Peking 1977, bls. 47-48).

Athugasemdir.

1) Í flokksstyrkingunni árið 1951 var flokksfélögum skipt í fjórar gerðir : Fyrstu gerð, þ.e. þá sem eru hæfir félagar; aðra gerð, þ.e. þá sem eru ekki fyllilega hæfir eða skortir alvarlega mikið á í ýmsum efnum og sem þarf því að byggja upp á ný og efla pólitíska meðvitund þeirra; þriðju gerð, þ.e. þá sem eru óvirkir og stutt komnir og eru ekki hæfir til að vera flokksfélagar; og fjórða gerð, þ.e. útsendara erlendra afla í stéttinni, flokkssvikara, pólitíska eiginhagsmunaseggi og úrkynjuð öfl, sem falist hafa í flokknum.

2) Að "flytja kletta" var stefna sem Líú Sjá-tsí hélt fram árið 1948, meðan landbæturnar stóðu yfir og efling flokksins á nýfrelsuðu svæðunum. Hann rægði mikinn fjölda flokksmanna í sveitum og nefndi þá "kletta" sem sliguðu niður bændurna og vildi að þeir yrðu reknir úr stöðum sínum og úr flokknum.

Október

# Október-hornið

Ætlunin er að framvegis gefist lesendum Vbl. kostur á upplýsingum um nýtt efni sem bókabúðinni Október berst. Þeir sem áhuga hafa á viðkomnadi efni geta litið við í búðinni að Óðinsgötu 30 alla virka daga milli 17-19, eða fengið efnið sent í póstkröfu.

Búðinni hefur nú borist efni um ástandið í Kampútseu. Meðal þess má nefna bók sem út er gefin af "Vináttusamtökum Svíþjóðar og Kampútseu". Þessi bók hefur að innihalda ræðu sem Pol Pot formaður Kommúnistaflokks Kampútseu, hélt á fjöldafundi í Pnom Penh þann 27. september 1977. Bókin nefnist "Treystum á eigin mátt", saga byltingar og sósíalískrar uppbyggingar í Kampútseu. Ræða Pol Pot geymir miklar upplýsingar um sögu byltingarhreyfingar landsins, sem hingað til hafa ekki verið tiltakar. Hún á því erindi til allra þeirra sem vilja afla sér vitneskju um raunverulegt ástand í SA-Asíu. Bókin er á sænsku.

Það er von Októberbúðarinnar að sem flestir afli sér þessarar bókar og hún verði þannig til að auka þekkingu Íslendinga á atburðunum í Kampútseu. Þar hefur margt merkilegt gerst. Þetta litla bændaþjóðfélag hefur á aðeins þrem árum byggst úr rústum í sjálfstætt sjálfsbjargarþjóðfélag. Hvernig má slíkt vera? Pol Pot gefur okkur svar við því. En hefur uppbyggingin ekki kostað óheyrilegar fórnir og mannlíf? Pol Pot veitir okkur svör við því.

"Treystum á eiginn mátt", er verðugt andsvar frá fyrstu



hendi við þeim borgaralegu sóðaskrifum sem tíðkast hafa um þessa litlu austrænu bræðraþjóð okkar.

Bókin kostar aðeins 825 kr.




## opið bréf frá EIK (m-l) til „KFÍ/ML"

# Sameinum kommúnista í einn flokk!

Framkvæmdarnefnd EIK(m-l) hefur ákveðið að gera úrslitatilraun til að ná einingu við "KFÍ/ML". Þetta opna bréf er ítrekun á fyrri einingartilraunum EIK(m-l), og um leið lokatilraun af hálfu EIK(m-l). Bréf þetta setur í sjálfu sér ekkert nýtt fram, en dregur seman hvað gert hefur verið af hálfu EIK(m-l) til að ná einingu, og setur fram á skýran og afdráttarlausan hátt hver skilyrði einingar eru.

A. Afstaða EIK(m-l) til "KSML/KFÍ/ML".

EIK(m-l) hafa ávallt haft þá réttu afstöðu til KSML (1972-1976) og "KFÍ/ML" (1976-) að hvorug þessara samtaka hafi verið marx-lenínísk og kommúnísk. KSML voru hálftrotskísk og "vinstri" róttæk samtök er tóku framsækna afstöðu í mjög fáum baráttumálum, eða með orðum miðstjórnar KSML í bréfi til EIK(m-l): "KSML höfðu alranga stefnu í flestum eða öllum baráttumálum". Þar af leiðandi gátu þau ekki haft rétta afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismanns/ kenninga Maos Tsetungs - þó svo segi í sama bréfi.

"KFÍ/ML" er hentistefnu- og endurskoðunnarsinnuð samtök sem sveiflast milli "vinstri" og hægri afstöðu. Samtökin hafa í nokkrum atriðum ranga afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismanns/kenninga Maos Tsetungs, þau hafa ranga stefnu í flestum baráttumálum, þau hafa ekki gert upp við arfinn frá KSML og samfylkja með trotskistum.

EIK(m-l) hafa samtímis litið réttilega svo á að innan KSML og "KFÍ/ML" hafi verið og sé enn að finna baráttusinna, fólk sem stendur marx-lenínisma/kenningum Maos Tsetungs nærri og kommúnista. Þess vegna hafa EIK(m-l) ávallt haft samskipti einhvers konar við "KSML/KFÍ/ML", þar til "KFÍ/ML" hundsaði algerlega sameiningargrundvöll EIK(m-l) í árslok 1977.

B. Einingarviðleitni EIK(m-l).

Í fyrsta lagi sést sameiningarviðleitni EIK(m-l) á því að miðstjórn KSML var afhent stefnuskrá marx-lenínista innan Fylkingarinnar áður en EIK(m-l) voru stofnuð. Farið var fram á viðræður við miðstjórnina, en hún setti kommúnistum þá kosti að ganga í KSML, eða láta af viðræðum að loknum tveim fundum ( sept/okt 1974).

Í öðru lagi skal nefnd áskorun stofnþings EIK(m-l) til KSML um opnar og fræðilegar umræður í málgögnum samtakanna (janúar 1975). KSML svöruðu aldrei áskoruninni.

Í þriðja lagi skal nefnd afstaða EIK(m-l) til tilboðs KSML um sameiginlega flokksstofnun samtakanna í apríl 1976. EIK(m-l) höfnuðu dagsetningu stofnþingsins en sögðu sig reiðubúin til sameiningar að uppfylltum þessum skilyrðum:

1. Grundvallareining um um marx-lenínismann/ kenningar Maos Tsetungs.
2. Grundvallareining um skipulag og starfshætti flokksins.
3. Eining um baráttustefnu í helstu málum stéttabaráttu dagsins.
4. Sjálfsgagnrýni beggja samtaka á fyrri villur.

KSML höfnuðu þessu.

Í fjórða lagi skal nefnd sameiginleg yfirlýsing EIK(m-l) og KSML frá vorinu 1976 um nauðsyn aukinnar einingar samtakanna.

Í fimmta lagi skal nefndur Sameiningargrundvöllur sem EIK(m-l) setti fram í sept. 1976, með ósk um svör "KFÍ/ML". Þurfti 4 opin bréf (nóv. 1976 til nóv.1977) til að þvinga fram viðbrögð forystu "KFÍ/ML". Engin svör bárust nema við ör-


Grundvöllur að sameiningu kommúnista í marx-lenínískan flokk.

EINING KOMMÚNISTA OG VERKALÝÐSSTÉTTARINNAR

Sambykkt EIK(m-l) ágúst 1976

INNGANGUR

TÉTTIR Á ÍSLANDI OG ÞJÓÐFÉLAGSGERÐ

fáum atriðum, en EIK(m-l) var boðið til "sameiningarráðstefnu" í staðin og ásökuð um klofning!

Auk þessa hafa EIK(m-l) beitt sér fyrir samvinnu við KSML/"KFÍ/ML" um árabil. T.d. 1.maí, í landhelgisbaráttunni, í baráttu gegn erlendri stóriðju, í and-heimsvaldabaráttu m.a. 21.ágúst 1976 o.fl.; nær alltaf með litlum árangri.

C. Nauðsyn kommúnistaflokks.

"KFÍ/ML" uppfyllir á engan hátt skilyrði kommúnísks forystuflokks. EIK(m-l) hafa uppfyllt þau öll nema skref það sem felst í því að vera á fullnægjandi hátt skipulagsbundin brjóstfylking verkalýðsstéttarinnar - þ.e. hluti hennar með ákveðinn fjölda verkamanna innan samtakanna.

Í ljósi þess að efnahagskreppa og pólitísk kreppa dýpkar á Íslandi ( sem víða annars staðar), í ljósi þess að átök risaveldanna stefna að heimsstyrjöld og í ljósi þess að EIK(m-l) hafa ákveðið stofnun raunverulegs kommúnistaflokks fyrir árslok 1979, er sameining íslenskra kommúnista enn brýnni en áður. EIK(m-l) hafa þegar sameinað þorra þeirra í ein samtök, en það er mat EIK(m-l) að enn lengra sé unnt að ná.

Af þessu leiðir að félögum "KFÍ/ML" ber skylda til að taka afstöðu til þessa bréfs og vinna að sameiningu kommúnista.

Þess ber að gæta enn fremur, að "KFÍ/ML" þróast ekki fram á við, og eru afar afllítil samtök á alla lund.

D. Hvers konar sameining?

EIK(m-l) eru reiðubúin að leysa upp samtökin að uppfylltum skilyrðum í lið E (sjá hér á eftir).

EIK(m-l) gera sömu kröfu til "KFÍ/ML".

EIK(m-l) krefjast þess að slíkar aðgerðir verði samhliða stofnþingi íslensks kommúnistaflokks fyrir 1980, en að á undan hafi samskipti beggja samtakanna sýnt að skilyrði í E-lið séu uppfyllt. Um þau gera EIK(m-l) engar málamiðlanir.

EIK(m-l) hafa þá afstöðu, að val forystu, ákvarðanir o.s.fr. hins nýja flokks verði aðeins framkvæmdar eða teknar með afli lýðræðislegs miðstjórnarvalds og meirihlutavalds flokksins, ekki með hrossakaupum milli samtakanna fyrirfram.

EIK(m-l) hafa þá afstöðu, að allar eigur samtakanna og stofnanir þeirra verði sameinaðar og þeim veitt forysta á sama hátt og fyrr er nefnt. EIK(m-l) krefjast þess að stefnuskrá og lög flokksins verði sameign allra félaga, þannig að þeir sem taki afstöðu gegn öðru eða hvorutveggja skoðist ekki sem félagar flokksins.

EIK(m-l) álíta opið hvernig undirbúningur sameiningarinnar fari fram, og að það sé samkomulagsatriði.

E. Skilyrði sameiningarinnar.

Forsendur fyrir því að EIK(m-l) sé til viðtals um sameiningu við "KFÍ/ML" eru þessar:

a) "KFÍ/ML" opinberi skriflega skýr og altæk svör og athugasemdir við kafla 2, 3 og 4 í sameiningargrundvelli EIK(m-l) frá sept. 1976.
b) "KFÍ/ML" opinberi skriflega skýr og altæk svör og athugasemdir við ályktun EIK(m-l) um alþjóðamál frá sumarþingi EIK(m-l) 1977.
c) "KFÍ/ML" geri opinberar og skriflegar athugasemdir við plagg þetta.

Þá fyrst meta EIK(m-l) hvort þau taki upp viðræður við "KFÍ/ML" og hvers eðlis samtökin óska að þær verði.

Forsendur fyrir fullri sameiningu samtakanna eru þessar:

d) Samstaða sé milli samtakanna í öllum höfuðatriðum um kafla 2, 3 og 4 í Sameiningargrundvelli EIK(m-l) og um alþjóðamálaályktunina (liðir a og b hér að framan)
e) Samstaða sé milli samtakanna um skipulag og starfshætti kommúnistaflokksins.
f) Samstaða sé milli samtakanna um grundvallarstefnu og baráttuaðferðir í baráttumálum dagsins á sviði andheimsvaldabaráttu, verkalýðsbaráttu, kvennabaráttu og námsmannabaráttu, sem og hvað varðar viðhorf til aðferðar samfylkingar almennt.

F. Lokaorð.

EIK(m-l) hvetja alla félaga "KFÍ/ML", svo og alla baráttusinna hvar sem er, til að gaumgæfa þetta bréf og taka afstöðu til þess.

Um er að ræða lokatilraun EIK(m-l) til þess að ná einingu með "KFÍ/ML".

Svarafrestur við þessu plaggi í heild og liðum a og b í E lið er 1. október 1978. Hafi svörin ekki borist fyrir þann dag, skýr og altæk, álíta EIK(m-l) að "KFÍ/ML" hafni einingu og bréfinu alfarið. Velji "KFÍ/ML" þann kostinn þá munu EIK(m-l) líta á "flokkinn" sem meðvitað og andbyltingarsinnað klofningsafl og haga baráttu sinni í samræmi við það.

Reykjavík, 25.júlí 1978

Fyrir hönd framkvæmdarnefndar miðstjórnar EIK(m-l)

Ari T. Guðmundsson, formaður.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK (m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



# Klám í Noregi og á Íslandi

"Látum þúsund klámbál brenna" stóð á dreifimiðum sem dreift var við fyrstu klámbrennuna í Osló. Síðan þá hafa margir bálkestir verið tendraðir.

Konurnar fara inn í búðirnar sem selja klámblöð, taka klámblöðin úr hillunum og kveikja í þeim úti á götunni fyrir framan. Með þessum aðgerðum vilja norskar konur sýna að þær kæra sig ekki um að vera söluvara sem klámspekúlantar græða á. Þær vilja berjast gegn klámiðnaðinum vegna þess að hann útbreiðir rotnar og kvenfjandsamlegar hugmyndir um konur. Þær kæra sig ekki um að klámspekulantar fái óáreittir að breiða út afskræmdar kvennahugmyndir sem segja að konur séu ekki ánægðar nema þær séu barðar með svipum, þeim sé nauðgað, eða að þær vilji helst fullnægja 16 karlmönnum á sólarhring. Konurnar treysta á samtakamátt sinn í þessari baráttu því yfirvöld leggja baráttunni gegn klámi ekki lið. Þeim hefur verið hótað af klámframleiðendum, en þær svara með því að vinna að því að uppljóstra hverjir standa á bak við klámiðnaðinn, hverjir eru blandaðir í hann á einhvern hátt, hve mikið græða þeir o.s.frv. Í forystu fyrir baráttunni stendur Kvinnefronten, norsku kvennabaráttusamtökin, sem hafa baráttuna gegn klámi m.a. á stefnuskrá sinni.

Kvinnefronten segir að það sé auðvaldið sem viðheldur og græðir á vændi og klámi og eins og nú hafa það ævinlega verið ríkjandi stéttir fyrri stéttaþjóðfélaga sem sköpuðu þær aðstæður sem þvinguðu konur úr í vændi. Verkalýðsblaðið telur fulla ástæðu til að leggja til atlögu við klámblöðin sem seld eru hér á Íslandi og á þann hátt berjast gegn kvennfjandsamlegum hugmyndum um konur og stöðu þeirra í samfélaginu.




Bókabúð Máls og menningar í Reykjavík var stofnuð af alþýðufólki og sósíalistum til að útbreiða alþýðlegar bókmenntir og sósíalískan áróður. Í dag er öldin önnur og MM auglýsir og selur klámrit. VB tók myndina við aðalinngang MM í Rvík.

# 21. ágúst
# Tvær spurningar - nokkur svör

Tíðindamaður Verkalýðsblaðsins brá undir sig léttari fætinum og lagði tvær spurningar fyrir nokkra aðila.
Spurningarnar voru :
1. Telur þú rétt að hvetja til baráttuaðgerða 21. ágúst nk. í tilefni þess að 10 ár eru liðin frá innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu ?
2. Ertu sammála stefnugrundvelli 21. ágúst-hreyfingarinnar ?

Nokkrir vildu ekki láta Verkalýðsblaðið ræða við sig, tveir vildu ekki láta nafns getið, og einn hinna nafngreindu óskaði ekki eftir myndbirtingu. Viðtölin voru tekin í Reykjavík dagana 24.-27. júlí.

Svörin fara hér á eftir.

**Atli Gíslason, lögfr.**
1. Ég tel bæði rétt og brýnt að nota hvert tækifæri til að afhjúpa og berjast gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Þróunin í Tékkóslóvakíu s.l. rúm 20 ár, einkum atburðirnir árið 1968 sýna glöggt eðli þessarar stefnu. En Tékkóslóvakía er ekki einsdæmi, sagan endurtekur sig, nú einkum í Afríku og Asíu. Baráttuaðgerðir gegn þessari útþenslustefnu og stuðningur við frelsisbaráttu kúgaðra þjóða er aldrei mikilvægari en nú.
2. Já.



**Atli Rúnar Halldórsson, iðnnemi**
1. Tvímælalaust. Ég vonast til að rödd 21. ágúst-hreyfingarinnar nái sem flestra eyrum, því að ég veit að hér á landi er að finna fjölda fólks sem vill leggja lið baráttunni gegn sovéskri heimsvaldastefnu. Þeir Kremlverjar vonuðust eftir að alþýða heimsins mundi smám saman gleyma Tékkóslóvakíu '68, en reynslan sýnir sem betur fer annað.
2. Já, í öllum atriðum. Hins vegar hafa margir lýst yfir stuðningi við hreyfinguna án þess að þeir hinir sömu skrifi undir öll atriði stefnu hennar. Það er gleðilegt og gott. Hliðstæður grundvöllur 21. ágúst- nefndar í fyrra svældi út úr grenjum sínum nokkra hundtrygga Kremlarvini, sem hafa búið um sig í Samtökum herstöðvaandstæðinga og Alþýðubandalaginu. Ég á von á því að þeim skjóti upp í ár líka. Við megum ekki gefa þeim frið!

**Á.L., fóstra**
1. Já, mér finnst ágætt að mótmælt sé einhverju sem beinist að Rússum, enda hafa þeir hagað sér svívirðilega í Tékkóslóvakíu, og sama gildir um framkomu þeirra gagnvart sinni eigin þjóð.
2. Ég er ekki alveg viss um hvað allt merkir í þessum kröfum, en mér virðist þetta vera ágætt. Ég ætla líka að mæta eins og NN.

**N.N., verkamaður**
1. Já, og þó fyrr hefði verið. Hvers vegna gera Hernámsandstæðingar ekkert ?
2. Ég er nú ekki alveg sammála því að setja Sovétríkin á sama stall og Bandaríkin almennt, en í þessu máli eiga þeir alla fordæmingu skilið. Þess vegna styð ég þessar kröfur og ætla að mæta í aðgerðirnar.

**Hreiðar Sæmundsson**
1. Já ég tel mjög áríðandi að sem flestir - bæði kommúnistar og borgaralega sinnað fólk - sameini krafta sína til hjálpar tékkneskri alþýðu, svo hún megi losna undan sovésku fasistunum og geti hafist handa í baráttu gegn afturhaldinu í sínu eigin landi.
2. Ég tek í þessu sambandi ekki afstöðu til þess sem varðar NATÓ og herinn, en er að öðru leyti sammála stefnugrundvellinum.

# Greinarflokkur um Kína

Eins og greint var frá í síðasta blaði, er sendinefnd EIK(m-l) komin úr ferð sinni til Kína. Í þessu og næstu blöðum munum við birta greinar og frásagnir um Kína. Af miklu er að taka til frásagnar um sósíalismann í Kína og eflaust verður margt ósagt í greinunum, sem lesendur vildu vita. Verkalýðsblaðið biður lesendur því að senda spurningar og óskir um efni sem þeir vildu að tekið yrði fyrir. Við skulum gera okkar besta til að svara.

**GREINAFLOKKURINN UM KÍNA VERÐUR Í 5 HLUTUM**

1.grein: Lífskjör og lífshættir í Kína. Þessi grein fylgir hér er í opnu blaðsins.

2.grein.: Nýja "gangan mikla". Þessi grein fjallar um þá fyrirætlun kínverja að byggja upp Kína og gera það að voldugu iðnvæddu sósíalísku landi fyrir aldamót. Hér er ekki um að ræða samskonar iðnvæðingu og við þekkjum, þó svo að kínverjar noti samskonar tækni, vélvæðingu landbúnaðar, tölvunotkun og sjálfvirkni, og við þekkjum úr iðnaði auðvaldsheimsins. Iðnvæðingin í Kína verður á grundvelli kjörorðsins um "að þjóna alþýðunni", þannig að grundvallarmunur er á notkun tækninnar í Kína og auðvaldslöndunum.

3.grein.: Tatsing olíusvæðið. 26.september 1959. Hráolían gýs úr olíulind, sem falin er undir grassléttunni í Heilunkíang, nyrsta héraði í Kína. Þetta gerðist tveim dögum fyrir tíunda afmælisdag stofnunar Alþýðulýðveldisins Kína 1.október. Því var fögnuðurinn mikill, stærri afmælisgjöf var ekki hægt að hugsa sér. Olíusvæðið var nefnt Tatsing, sem þýðir "mikil hátíð". Í heiminum eru um 27000 olíusvæði og er Tatsing nú eitt þeirra stærstu. Tatsing er nú iðnaðarsvæði með um 600 þús. íbúa og alhliða iðnað. Tatsing er alsherjar fyrirmynd í iðnaðaruppbyggingunni í Kína í dag.

4.grein.: Stéttabaráttan heldur áfram í sósíalismanum. Í þessari grein munum við fjalla um hina sífellu baráttu tveggja stefna - þeirrar borgaralegu og þeirrar byltingarsinnuðu. Einkum munum við gera grein fyrir baráttunni gegn "fjórmenningarklíkunni" og því hvernig sú barátta er tvíþætt, þ.e. að brjóta á bak aftur gagnbyltingarstefnu "fjórmenningarklíkunnar" og um leið í gegn um þessa baráttu að efla pólitíska vitund alþýðufjöldans.

5.grein.: Kína á vettvangi alþjóðamála. Hér munum við taka fyrir feril Kína á alþjóða vettvangi með áherslu á það hvernig kenning Mao Tsetungs um skiftingu heimsins í þrjá hluta stýrir aðgerðum Kína og afstöðu. Við munum einnig koma inn á stríðshættuna og varnarundirbúning kínverskrar alþýðu.

Með greinaflokknum munum við eftir því sem pláss leyfir birta myndir og beinar frásagnir kínverskrar alþýðu úr lífi og starfi, sem sendinefndin hafði með sér úr heimsóknum á vinnustaði, heimili, skóla, barnaheimili, heilbrigðisstofnanir o.fl.



Kínversk stúlka á dansæfingu. (Mynd: Verkalýðsblaðið)

# LIÐSFUNDIR
## 21. ágúst-hreyfingarinnar

Liðsfundir 21. ágústhreyfingarinnar verða sem hér segir:
Fimmtudag 3. ágúst kl. 20.30 á Hótel Esju.
Miðvikudag 16. ágúst kl. 20.30 á Hótel Esju.

Allir félagar og aðrir stuðningsmenn eru hvattir til að mæta á þessa liðsmannafundi.

Framkvæmdanefnd.

# Tengiliðir 21. ágúst-hreyfingarinnar

Tengiliðir 21. ágúst-hreyfingarinnar eru eftirtaldir félagar í framkvæmdanefnd hennar:
Formaður : Matthías Sæmundsson, Grænuhlíð 19, kj.
Gjaldkeri : Trausti Hauksson s. 84591.
Ritari : Arnór Sighvatsson, s. 20807.
Fulltrúi skemmtinefndar : Guðmundur Sæmundsson, s. 82457.

Þeir sem óska eftir að taka þátt í hópastarfi 21. ágúst-hreyfingarinnar eða á annan hátt að veita henni liðsinni, geta haft samband við hvern ofangreindra sem er. Bréfleg skilaboð má senda nefndinni á heimilisfang Matthíasar.